til ad fagna og Lof siingia hinum gooda Gude i Hiortum vorum, Col 3. helldur enn allur Heimurenn, Jaa oll Guds Christne, hvar hellst sem hun er i Heimenum, hun maa jaata þad satt ad vera, er Paulus seiger, Eph. 2. umm Heidingiana: Nu eru þier i JEsu Christo, sem aadur fiærre vorud, naalæger ordner fyrer Blood Christi, þvi hann er vor Fridur, hann sem giorer eitt af baadum, og Gyrdingu Midveggiarens hefur nidurbroted. J kringum Jerusalems Mustere var eirn Stein-Veggur, þaungad leyfdest Heidinglum ad koma, enn ecke leingra, so ad Pioonustugiordenn ecke saurgud yrde af Ommskornum Monnum, og til þessa siitur Postulenn i þessum Ordum. Enn siidann Guds Sonur er i Heimenn borenn, þa er i Christo hvorke Ummskurn nie Yferhwd, Gal. 5. þvi seiger og Paulus aptur, ad hann afmaad hafe Logmaal Bodordanna, sem var innefaled i Setningunum fyrer sitt Holld, so hann giorde i siaalfum sier tvo ad einum nijum Manne, og giorde Frid, Eph. 2. Þetta er medal annars sa Fridur er Einglarner boda, Fridur millum Guds og Manna, þvi Gud er Madur ordenn, Fridur millum Himens og Jardar, þvi Gud hefur i Christo alla Hlute forlijkad vid sig, (semiande Frid fyrer Blooded hanns Kross) hvort helldur þeir eru a Jordu edur a Himne, Col. 1. Fridur vid Heilaga Guds Eingla, hvorra Samneyte vier hofdum af oss broted, þvi seiger Paulus, ad vier sieum komner til Fiallsins Zion, og til Borgar Guds lifanda Jerusalem hinnar Himnesku, og til margra Þusunda Einglanna, Hebr. 12. Fridur a millum Gydinga og Heidingia, þvi þad er i JEsu blessadre Hijngadkomu framkomed sem DRottenn spaaer, Zach. 8. seigiande: A þeim Dogum skulu 10. Menn (þad eru marger) af ollum Pioodum og Tungumaalum, þrijfa i Klædafalld Gydingsins, seigiande: Vier vilium med ydur fara, þvi vier heyrum Gud er med ydur. Þesse er Jmmanuel, hvor ed fyrst var sendur til Fortapadra Sauda af Huse Jsraels, Matth. 15. enn hafde þo adra Saude er ecke voru af þvi Sauda-Huse, er honum byriade og þaungad ad leida, Joh. 10. so þar yrde eitt Sauda-Hus og eirn Hyrder. O hvilijk dypt Audæfanna og Guds Speke, Hier maa þad satt jaata er Petur med stoorre Undran sagde fordum, Act. 10. er Gud sende hann til ad skijra Corneliunt og hanns Heima-Foolk: Nu reyne eg i Sannleika sagde hann, ad þar er eckert Manngreinar Alit hia Gude, helldur ad sierhvor eirn, af hvorre Piood sem hann er, sem hann Ottast, og fremur Riettvijsena, hann er honum þocknanlegur, Act. 10. Þar fyrer siingia og Guds Einglar hier i Lofkvædenu, Og MONNum GODur Vilie, Þad kallar Textenn Velþocknan. Hvar munde þessa Velþocknan vera ad finna, Brædur mijner? ecke hia vesolu Mannkyne, allra siidst a þeim Dogum, þegar Drottenn kom til sinnar Eygnar og hun þeckte hann ecke, og kiemur þad hier framm sem Johanes seiger: 1. Pist. 4. Cap. J þvi er Kiærleikurenn foolgenn, ecke ad vier elskudum Gud, helldur ad hann elskade oss, og sende sinn Son, ad hann yrde Forlijkun fyrer vorar Synder. Þetta er ecke af mannlegum Tilverknade skied, þvi aan Christs er Madurenn Andstygd fyrer Gude, helldur fyrer hanns Skulld sem er hanns elskulegur Sonur, i hvor-

ium hønum alleina velþocknast, Matth. 3. Þess hafa hier ad noted, hvorra Holld og Blood han̄ hefur uppa sig teked, þvi eingen̄ hefur um̄ Alldur sitt eiged Holld hatad, Eph. 5. þar fyrer er ecke ad undra, þott Gud hafe Velþocknan a þeim, hvoria han̄s Sonur skam̄ast sijn ecke Brædur ad kalla, Heb. 2. Og þar ad Auke fyrer Trwna a han̄ eru orðner eirn Ande med Gude, 1. Cor. 6. Fyrer þvi samfagna nu Guds heilager Einglar syndugu Man̄kyne, er so bradlega høfdu þesse gledelegu Um̄skipte feinged, ad verda Guds Born af Satans Børnum, Leysingiar Christi af Syndaren̄ar, Prælum, Guds Rijkis Erfingiar af Ørfum Fordæmingarin̄ar, Einglunum samlijker og þeirra Samlags Men̄, af Lagsmøn̄um Dioflan̄a; En̄ so sem ad þeir himneſku Andar, fagna þessu so miøg sem adur er sagt, ad þeir boda Frid og Velþocknan Guds yfer Jordun̄e, So fagna og Christi Læresveinar, og þad Foolked er hønum fylgde in̄ til Jerusalem, þar af, ad Fridur er i Himnenum orden̄, þar um̄ skrifar so Lucas. 19. Og allur Fiollde Læresveinan̄a tooku til ad lofa Gud med Fognude og hárre Rødu, fyrer allar þær Jarteikner er þeir sied høfdu, seigiande: Blessadur sie sa sem kiemur i Nafne DRottens Fridur a Hiñne og Dijrd i Upphædum. Merk þetta vel Christen̄ Madur. Hin̄ naduge Gud hefur lated Fridar-Bod ganga um̄ alla Verølldena og lagt sijnum Postulum uppa ad auglijsa Forlijkun þessa, 1. Cor. 15. Hvar fyrer þeirra Hlioomur er utgeingen̄ um̄ alla Heimsbygdena, Rom. 10. En̄ Gud naade hvad faaer þeir eru sem vilia fallast a þau Rad, ad min̄ast vid Sonen̄ so han̄ verde oss ecke reidur, Ps. 2. Gud hefur lated boda Frid a Jordu. Lat þier vera ant um̄ Christen̄ Madur, ad verda þess fulløruggur, ad þar sie og Fridur fyrer þig i Himnenum. Aller JEsu Christi Velgiørningar eru i han̄s Fædingu øllum bodner, Eirnen̄ þeim sem Foot-troda Guds Son, og Sattmaalans Blood Almen̄elegt hallda, med hvøriu Syndaren̄ er þo helgadur, Hebr. 10. Gud er ad søn̄u Frelsare allra Man̄a, þvi han̄s Sonur hefur fyrer alla lided, þo eirna mest Trwadra, 1. Tim. 4. Þvi þeir einer meiga Frelsesins nioota, sem trwa a Nafn Eingietens Sonar Guds. Gief þvi ecke upp a Veige þin̄ar Saaluhialpar fyrr en̄ ad Heilagur Ande ber Vitne þijnum Anda þar um̄, ad þu siert Guds Barn. Rom. 8. En̄ hvørnen̄ mattu þad ødlast? Þad skiedur ef þu giorer aungva Saatt vid han̄s Ovine. Ecke vid Diofulen̄, þvi han̄ er Guds svaren̄ Ovinur, vier høfum afneitad øllu han̄s Athæfe i Skijrnen̄e, hvoria Petur kallar Sattmaala goodrar Samvitsku, 1. Pet. 3. Ecke Einungis þess vegna, ad vier i hen̄e Endurfædder erum, og høfum Styrk Samvitskun̄ar þar af, ad vier erum sætter vid Gud, og kvitter um̄ Sekt Uppruna Syndaren̄ar, helldur og hin̄s an̄ars, ad hun min̄er oss a um̄ alla vora Æfe, ad hallda vort Loford af fremsta Megne, og ad flecka ei Samvitskuna med þeim Verkum, sem Andskotanum eru til Þioonustu, en̄ Gude til Stygdar, ecke vid Hollded, þviad þess Þankar eru Reide og Fiandskapur i giegn Gude, Rom. 8. Eingen̄ kan̄ Tveimur Herrum ad þioona, Matth. 6. En̄ Christur og Belial eiga eckert Hlutskipte saman̄, 2. Cor. 6. Nu eru Holldsins Verk auglioos,

þad

þad eru Hoordoomur, Saurlijfe, Ohreinleike, Lausung, Skwrgoda Dijrkun, Fiolkinge, Fiandskapur, Prætur, Kappgyrne, Reide, Prættaner, Sundurþyckia, Flockadrættur, Ofund, Mañdræp, Ofdryckia, Ofneytsla og þessum lijkt, Gal. 5. Ef vier þessar Synder æfum, og lætum þær drottna i voru Hollde, þa erum vier ecke Guds Viner, og ecke er hañs Fridur i oss, ecke kuñum vier helldur vid Samvitskuna Frid ad hafa nema hun sofe, og mun hun þo sijdar af illum Draum vakna þegar vest giegner, þegar Andskoteñ kipper Svæflenum undañ Hofdenu, og vier erum sijst bwner til Motgaungu honum i Daudans harda Strijde, og er þa hætt vid ad heñar Ormur verde ad þeim Orme sem alldrei deyr, Esa. 66. Jaa, nema vier Daglega tokum uppaa oss Guds Herskrwda, og leggium allt Kapp aa ad stockva þessum Oalldar Flocke, epter þui sem hvor eirn verdur æsooktur, þa kuñum vier ecke Frid vid Gud ad hafa, ecke Guds Born ad heita, og i aungre Vissu um Guds Rijke edur Arf Himnaña ad vera, þvi þeir er Christo tilheyra, Krossfesta sitt Holld med þess Gyrndum og Tilhneigingum, Gal. 5. Giored ei helldur Samdrætt vid Heim þeñañ, ef þier vilied Guds Viner heita, þvi Johañes seiger, 1. Pist. 1. Elsked ecke Heimeñ nie þad sem i honum er, Ef nockur elskar Heimeñ, þa er ecke Guds Elska i honum. Ecke seige eg ad Meñ skule ei hafa Umgeingne vid Heimsins Born, añars mættu þeir fara wt wr Heimenum, 1. Cor. 5. seiger Paull: Hitt er og Riettvijst ad umgaangast Fridsamlega vid þaa sem eru af Heimenum, verde þvi æfomed, þvi Paall seiger eñ aptur, Rom. 12. Ef þad skie kañ, ad svo miklu Leite sem i ydar Vallde er, þa hafed Frid vid alla Meñ. Og David hæler þvi, ad hañ hafe fridsamur vered, Ps. 120. Jafnvel vid þaa sem Frideñ hotudu, Ps. 119. Hitt seige eg, ad Meñ skule eckert Samblende edur Samtok hafa vid þa i Illskuñe og Prettvijseñe, þvi þad er ad færa Hernad aa moote Gude, og verde einhvor af oss til þess kvaddur, þa eiga Meñ ad brioota þeñañ Frid og Ottast eige Meñena, so vier kuñum ad hafa Frid vid hañ er Saal og Lijf gietur dreped eilijfum Dauda, Matth. 10. Riettvijseñ og Friduren kysse hvort añad, seiger David, Ps. 84. Þar seigest vel eingeñ vera, sem ecke Frideñ kioose, eñ aller vilia þo ecke Riettlæted æfa, eins og hvort kuñe añars aan ad vera. Þar sem ecke er Riettvijse, þar er alldrei Fridur, þar sem ecke er hiñ sañe Fridur, þar er alldrei Riettvijse. Þad er hiñ sañe Fridur, ad hallda Eindrægne med Gudrækne og goodre Skyckun, eñ hata Skañer og Klæke. Þegar Veralldareñar Syner eru megtuger ordner, og hafa broted under sig adra, so ad eingeñ vogar ad stijga aa þad Straa er þeim mislijkar, þa hyggia Meñ ad þeir sieu i Fride, eñ þad er vijst, ad þeir ed odrum hafa raanglega tilgiort, hafa þa hvad miñstañ Frid, er þeim sijnest einskis Ofridar Von vera, þvi Fridur þesse helldur jafnañ Strijd vid Samvitskuna. Og nær þeir ha sa aungvañ ad beriast vid, þa beriast þeir vid sialfa sig, soddañ Fride eiga oll Guds Born ad hafna, jafnvel hvott þad sie nu um Stunder Fridseme kollud, ad lijda og samþyckia, edur ad miñsta Koste lætast ecke siaa hinar verstu Skañer og Odygder: Og Hlutseme kollud, ef nockur vandlæter þar um, Eñ þad mætte þañ einu gillda, sem hefur

Frid vid Gud og Samvitſku ſijna, Þvi þoott hañ jafnvel Fridlaus yrde og rækur fraa Moñum, þa hefur hañ alltijd Frid-Land i Guds Rijke Og þoott Gud take hañ ei ſo flioott i burt wr Heimenum, þa vardveiter hañ þañ hiñ ſama fyrer Heimenum, Joh. 17.

Þad er gott ad vera hlutſamur med ſama Hætte og Noe, Loth, Moyſes, Samuel, David, Elias, Eſajas, Micheas, Jeremias, Johañes Baptiſta, St. Paall og adrer Guds Meñ, er hiellldu Brixle Chriſti ſtærre Virdingu ad vera, eñ Heidur Veralldar þeſſarar, Heb. 11. Eſajas Cap. 9. nefner vorn Immanuel Fridar Hofdingia, eñ þo ſeiger þeſſe Fridar Hofdinge, Matth. 10. Meined ecke þad eg ſie komeñ til ad ſenda Frid a Jordu, Eg er ei komeñ til ad ſenda Frid, helldur Sverd, þvi eg er komeñ til ad ſetia Mañeñ upp i moote Fodurnum, og Moodurena upp i moote Dottureñe, og Sonar-Konuna a moote Modur Bonda ſijns, og Mañſins Heima-Meñ verda hañs Ovíner. Hvør er þa Fridur ſa er Drotteñ hefur fært oſſ af Himnum? Þad er Fridur millum Guds og Maña, Eñ ecke Fridur millum Guds Barna og hañs Ovina, Fridur vid Samvitſkuna, Eñ ecke vid Syndena, Fridur vid Guds Løgmaal, eñ ecke vid Hollded, eñ ef nockur af þeim er hañ talar um̃, Matth. 10. ſamþycker ecke þeſſa Fridar koſte, þa er ſa hañs Ovinur, og a aungvañ Frid vid þañ ſama ad giora, þvi ſa ſem ecke hatar Fodur og Modur, Brædur og Syſtur, fyrer hañs Skulld, hañ er hañs ecke verdugur, Matth. 10. Ad ſijdurſtu er þetta ſa Fridur Guds, ſem ædre er ollum Skilninge, Phil. 4. Miñ Frid gief eg ydur, miñ Frid læt eg hiaa ydur, ecke ſo ſem Heimureñ giefur þa gief eg ydur, ſeiger JEſus vid Læreſveinana, Joh. 14. Þad er ſoddañ Fridur ſem giorer oſs rijka i Faatæktеñe, Friaalſa i Prældoómenum, Glada i Sorgeñe, Metta i Hungrenu, Inlenda i Utlegdeñe, og um̃ alla Hlute oſs ſiaalfum fullnooga, þa vier eckert høfum. Þeſſe Fridur giørde Job Heilbrigdañ i Kromeñe, David Riettlaatañ midt i Syndeñe, hañ digtade Loffſaungeñ fyrer Paal og Sylas i Myrkvaſtoſuñe, Act. 16. Hañ gladde Chriſti Poſtula þa þeir geingu Fagnande, og þo Hydſtrykter wt fra Raadenu, Act. 5. Hañ huggade Mariu under ſijns Sonar Kroſſe, og eñ nu i Dag alla þa, er hañ bera med heñe. Og fyrer þvi, Brædur mijner, ad þeſſe Fridur er ſo mikell og ſo dijr, ad aan hañs er eingeñ Fridur, og þeir ed þeinkia a Himneſka Hlute, kuña aungvañ Frid ad hafa, þegar þeir hañs ſakna, þott oll Verølldeñ hlæe a moote þeim: Þa Graatbæne eg ydur fyrer ydar Velferdar ſaker, ad Endingu med Ordum Pauls, þar hañ ſeiger: Vier erum Sendebodar vegna Chriſti, 2. Cor. 5. Og ſo ſem Gud beidde fyrer oſs, þa bidium vier i Chriſti Nafne, ſætteſt vid Gud. Eñ þu naadarfulle himneſke Fader, ſem med dijrmætu Bloode þijns Eingietens Sonar, hefur endurkeypt Velferd Saalna vorra, gief þu þijnum Bornum ad elſka þig, elſkaſt Iñbyrdis, og hallda Eindrægne i Andanum, ſo aller þeckia meige, ad þeir ſieu þijns Sonar Læreſveinar, Joh. 13. Gief þeim ad hlaupa ſo Skeid Lijfdaga þeſſara, ad þeir faae yferuñed fyrer hañ, ſem Heimeñ hefur ſigrad, ſo ad þijner Pioonar mættu med Simeone i Fride fara epter Orde þijnu, Luc. 2. nær þier þocknaſt ad

þeir

þeir ganga skule Veg allrar Veralldar, Bænheyr þad Herra Himneske Fader, fyrer JEsum Christum, Amen.

# Auñur Predikun a Joola Dageñ.

Gudspialled Joh. 1. Cap.

J Upphafe var Ord. Og þad Ord var hiaa Gude, og Gud var þad Ord, þad sama var i Upphafe hiaa Gude. Aller Hluter erū fyrer þad giørder, og aan þess er eckert giørt, hvad giørt er. J þvi var Lijfed, og Lijfed var Lioos Maña. Og Liooſed lijser i Myrkrunum, og Myrkreñ hafa þad ecke høndlad. Par var eirn Madur af Gude sendur, sa hiet Johañes. Hañ kom til Vitnisburdar, ad hañ bære Vitnisburd af Lioosenu, so ad aller skylldu fyrer hañ trwa. Eige var hañ þad Lioos, helldur ad hañ bære Vitnisburd af Lioosenu. Pad var satt Lioos, hvørt ed upplijser alla Meñ komande i þeñañ Heim. Pad var i Heimenum, og Heimureñ var fyrer þad giordur, og Heimureñ þeckte þad eige. Hañ kom til siñar Eignar, og hañs siaalfer medtooku hañ eige. Eñ so marger sem hañ medtooku, þa gaf hañ þeim Magt Guds Børnum ad verda, þeim sem a hañs Nafn trwa. Eige þeim sem af Bloodenu, eda þeim sem af Holldsins Villd, edur af Mañsins Vilia, helldur þeim sem af Gude eru fædder. Og Orded vard Holld, og bygde med oss, Og vier saaum þess Dijrd, Dijrd so sem Eingietens Sonar af Fødurnum, fullañ Naadar og Sañleika.

## Exordium.

DAniel Spaamadur i siñar Bookar ødrum Capitula, seiger fra þvi, ad Nebucadnezar Konunge hafe giefest Sijn nockur i Draume, er hañ kvad sijdañ ad være horfeñ wr Miñe sier, og beidde Fiølkingis-Meñ sijna og Spaasagnara, ad þeir segdu hønum Draumeñ, eñ þeir tøldust undañ Bode Konungs og svørudu hañ veg: Par er eingeñ Madur a Jørduñe, er meige giøra þessa Konungsins Skipan, hvar fyrer eingeñ Høfdinge edur Drotteñ hefur nockru Siñe þvilijks krafest af nockrum Spaamañe edur Chaldæo, þvi sa Hlutur er Konungureñ æsker epter, er so Dijrmætur, ad eingeñ maa hañ seigia Konungenum nema Godeñ, hvør ed ecke byggia med Holldenu. Nu jafnvel þott ad Spaameñ þesser væru Satans Pioonar, þa maa þo ecke þvi a moote seigia, ad þesse þeirra Affsøkun var gilld a alla Vegu. Eñ þess meira sem Heidingiar þesser høfdu til Maals sijns, þess meira høfum vier Christner Meñ Gude ad þacka, ad hañ hefur oss þañ i Heimeñ sendt, er þad hefur giørt, er eingeñ Maña giøra kuñe. Chaldæa Lands Vitringum þootte þad Nijungar, ad Konguureñ skillde leggia þeim uppa þeñañ Hlut; Eñ hiñ Alvitre Gud hefur giørt eirn nijañ Hlut a Jørdu, ad Konañ hefur umkrijngt Mañeñ, Jer. 31. Hvørt Spaadoomur þesse eige ad skiliast um Holldtekiu DRottens edur ei, er eg ecke alldeilis vyss um, samt flijgur mier i Hug af þessu, ad þad hefur alldrei um Æfe heyrst, ad nockur hafe undereins Mey og Mooder vered, ad hañ sem uppfyller Himen og Jord krepptest i einum Stalle, ad

Gud

Gud er Madur orden. Margvijslega og a marga Vegu hefur Gud talad vid Fedurnar i Fyrndeñe; Eñ þad er nijr Hlutur, sem hañ talar vid þa fyrer Soneñ, Heb. 1. Og ad Gud Jklæddur Mañlegu Hollde, sa Eingietne Sonur Födursins, sem er i hañs Skaute, hañ i eigeñ Persoonu opeñberar syndugum Mönnum allañ hañs Vilia og Veg Sæluhiælpareñar. Spaasagnararner fortooku þad, ad Gud munde byggia med Holldenu; Eñ hvad vilium vier þar uñ tala, **Ad Orded er Holld orded, og bygde med oss?** Vier heyrdum þad, saum med Augum vorum og skodudum, og Hendur vorar þreifudu a þvi, seiger Johañes, 1. Pist. Cap. 1. Goden eru Mönnunum lijk orden, og osañ komeñ til vor, sögdu Fordum þeir Meñ i Lystris, er Paulus læknade þañ er Halltur var boreñ, og villdu hafa veitt þeim Barnabæ Gudlega Lotning, Act. 14. Eñ þeir voru þo ecke nema Meñ, og hvad hellst þeir giördu Undrunarlegt, þad giördu þeir i Nafne JEsu Christi. Eñ i Mañdoom DRottens er hiñ lifande Gud osañ stijgeñ, og hefur Bygd sest a medal Mañaña, Jaa, hvilijkur Gud, af hvörs Krapte og fyrer hvörs Almætte ad öll Furduverk a Himne og Jördu giörd eru. Uñ þetta Allra Helgasta og Daasamlegasta Efne giefur oss Ordsök ad tala vor uppleseñ Texte, hvörium vier vilium ganga nock ud nær, og þoott ad ei meige hinum gooda Gude fullþacka þar fyrer, ad eingeñ er sa medal vor, sem Efe uñ Guddoomeñ Christi nie hañs Holldtekiu; Pa samt af þvi ad þetta Heilaga Evangelium færer oss a þa Leid, sem liggur til ad tala hier uñ, Pa vilium vier af þvi alleina hugleida þad, ad Gud sie Madur orden.

Hier til styrke oss goodur Gud med Krapte sijns Anda, AMEN.

## Utleggingeñ.

I Upphafe VAR ORD, seiger Gudspiallamadureñ. Eg vil ecke i þetta Siñ fara mier til Orda, edur upptelia Meiningar Maña, hvar fyrer hin oñur Guddoomsins Persona verdur ORD kölllud, þo er þad vijst, ad Gydingar nefndu so Messiam a þeim Dögum, og hefur þad öllum kuñugt vered, maa skie, þess vegna, ad Ord Fyrer heitesins uppa hañ hlijdde. Ad eg ei tale þar uñ, ad hiñ mættuge Gud skapade fyrer hañ alla Hlute, þegar hañ baud þeim ad verda med einu Orde, Gen. 1. edur og hitt, ad hañ Holldenu Jklæddur, hefur med Sañleiksins Orde opeñberad oss Födursins Vilia, Joh. 1. Eñ hvorneñ sem þessu vared er, þa seiger Johañes, ad þetta Ord edur Guds Sonur, hafe vered i Upphafe hia Gude, Hvort sem vier nu tokum þetta Ord UPPhaf, fyrer Upphaf Eilijfdareñar, sem Raunar er eckert añad eñ siælf Eilijfdeñ, i hvorre ad ei er Fyrr edur sijdar, helldur eru þusund Ar hia Gude, so sem eirn Dagur, og eirn Dagur so sem þusund Ar seiger Petur, 2. Pet. 3. Edur vier tokum þad fyrer Upphaf Sköpunar allra Hluta, Gen. 1. þa er þad audsært, ad Sonur Guds er honum sameilijfur, Paulus seiger, 1. Cor. 15. ad þegar sagt verdur, ad aller Hluter sieu Christo underlagder, þa er þad bert, ad sa er undañtekeñ, er honum hefur alla Hlute underlagt. Alijka vil eg hier uñ seigia, nær sagt verdur, ad Guds Sonur hafe vered i Upphafe Sköpunar allra Hluta, þa er audvitad, ad hañ siælfur hefur alldrei skapadur vered, og er þess vegna, og hefur vered fyrer alla Eilijfd. Paulus tekur af Tvijmæleñ hier uñ, er hañ seiger: ad hañ hafe vered ædur eñ ad aller Hluter voru, Col. 1. Og uppa þad, ad eingeñ leide sier þad i Hug, ad hañ ecke sie Gude Födur sameilijfur, þa seiger David Konungur, Ps

45. Þiñ Velldis Stoll O! Gud, er uṁ Alldur og ad Eilijfu. Eingeñ Efe er a þvi, ad þetta er uṁ JEsum Guds Son talad, þvi strax epter seiger David, Pu hefur Riettlæted elskad, eñ hatad Raanglæted, þar fyrer hefur O! Gud þiñ Gud smurt þig med Oleo Fagnadarens fraṁ yfer þijna Hluttakendur, Ps. 45. og þesse hin somu Ord þijder Paulus til Hebreos, 1. uppa JEsum, hvor ed epter Mañdoomenum smurdur er med H. Anda, Og hvad meira er, ad DRotteñ siaalfur er þvi samhliooda, er hañ heimfærer uppa sig þau Ord er standa, Esa. 61. Ande DRottens er yfer mier, af þvi hañ hefur smurt mig seigiande: Þesse Ritning er i Dag uppfylld, ad ydur aaheyrendum, Luc. 4. Og so eingeñ meine, ad þetta sie talad alleina uṁ hina epterkomande Eilijfd, þa seiger Micheas, Cap. 5. Pu Bethlehem Ephrata, ert aungvañveigeñ hin miñsta a medal Hertoga Juda, þvi af þier mun fraṁkoma sa DRottnareñ i Jsrael, hvors Utgaangur er i fraa Upphafe, og fyrer allar Allder. Þegar David bidur Guds Son ad spara sijn faau Ar, þa fiñur hañ eckert dijrmætara til ad hræra hañs blessudu Myskunar Ydur sier til Medaumkunar, helldur eñ hañs eilijfa Gietnad, þar hañ seiger, Ps. 102. Miñ Sterke Gud, svipt mier ei burtu midt a mijnum Dogum, af eilijfum Gietnade eru Ar þijn, aadur eñ þu Jordena grundvallader, og Himnarner eru þijn Handaverk, þau munu forgaanga, eñ þu blijfur, allt mun þad so sem Fat fyrnast, og so sem odru Klæde muntu uṁbreita þeim, eñ þu blijfur hiñ same, og þijn Ar þrotna ecke. Hvor Davids Ord Paulus til Hebreos, Cap. 1. eñ aptur þijder uppa Drotteñ Jesum og hañs Guddoomlega Naatturu, edur þvi munde Esajas Cap. 9. kalla hañ Fodur Eilijfdareñar edur eijfañ Fodur, nema Guds Ande hefde skoted honum þvi i Briost, ad hañ hefde aasamt Gude Fodur vered fra eilijfu? Ecke hefur Esajas talad þetta af siaalfum sier, þvi hañ spaaer so greinelega, ad aa maa þreifa, uṁ þa Hlute er eingeñ Madur vita kuñe, nema Gud være med honum. Eñ eg em vissum, ad ef hañ er Fader Eilijfdareñar, þa er hañ ecke yngre eñ Eilijfdeñ, eñ fyrst hañ eilijfur er, þa er liooft þar af, ad hañ er sañur Gud, Þess gietur og Johañes hier i Gudspiallenu, er hañ seiger: OG GUD VAR PAD ORD. Hvor Grein ad epter Ordshætte Ritningareñar merker sama og hañ sagt hefde, Pad Ord var Gud, so sem þegar hañ seiger i odrum Stad, Andeñ er Gud, þad merker, Gud er eirn Ande, Joh. 4. Þetta vottar Gudspiallamadureñ med þeim Verkum er eingeñ kuñe ad giora nema Gud eirn, er hañ seiger: Aller Hluter Eru Fyrer Pad GJorder: Hvor vill þa þeinkia uṁ Christ añad, eñ hañ sañur Gud sie? Mier koma i Hug þau Ord er sagde heid eñ Madur Pythagoras, aan efa til þess ad hæda ad Metnade og Ærugyrnd daudlegra Maña, sem þo ecke kuña ad skapa eina Mijflugu, og vilia þo so sem Guder tignader vera: Ef nockur þeinker sagde hañ, þad hañ mune Gud vera, þa skape hañ eina Verolld lijka þessare, og mun eg hañ strax tilbidia. Johañes itrekar þetta eñ aptur, so ad aller meige ur Skugga ganga hier uṁ, seigiande: An Hañs Er Eckert Giort Hvad Giort Er. Sie nu eingeñ Hlutur aan hañs giordur, þa er þad audsært, ad hañ siaalf-

ur Ogiordur er og Oſkapadur, þvi a millum Skaparans og allrar Skiepnu kan̄ eing‑
en̄ Madur ad hyxa edur minda ſier nockurn Hlut, þar eingen̄ hefur ſig ſialfan̄ ſkap‑
ad, og Skiepna eingen̄ hefur giort ſin̄ Skapara, og ſo ad vier ei meinum, ad Guds
Sonur hafe vered alleina nockurskonar Verkfære i Skopunarverkenu, þa ſeiger Da‑
vid med lioosum Ordum i þeirre Grein, er eg ſtrax las, af Pſalm. 102. ad han̄ hafe
Verolldena grundvallad, og ad Himnarner ſieu han̄s Handaverk, og ecke einaſta
hefur han̄ þeſſa ſijnelegu Verolld ſkapad, helldur ſeiger og Paulus, Col. 1. Fortaks‑
lauſt, ad fyrer han̄, þad er, af honum ſieu aller Hluter ſkapader, ſem eru a Himne
og Jordu, hvad Sijnelegt og hvad Oſijnelegt er, hvort helldur þad eru Tronarner
edur Herradæmen̄, edur Yfervollden̄, edur Valldſtioornernar, allt er þad fyrer han̄,
og han̄s vegna ſkapad. Med þeſſum hinum ſijdurſtu Ordum vill Paulus merkiaſt
læta Eingla Guds og hinar Andlegu Verur, fyrer utan̄ Gud eirn, allra Hluta Skap
ara, ſem eirn af ollu Oſkaptur er. Nu være þad ad ſon̄u noog til ad vitna um̄ Gud‑
doom Frelſarans, ad han̄ er eilijfur og allra Hluta Skapare, en̄ Johan̄es lætur ecke
kyrt þar med, helldur ſeiger han̄: J ÞVJ VAR ORDJD, Og ORDJD Var
LJoos Man̄an̄a. Med hvoriu han̄ teikna vill, ad allt hvad Lijfs Anda hefur, And‑
legan̄ edur Lijkamlegan̄, þad life af þvi ſama Lijfe, og af han̄s Fyllingu hofum vier all‑
er medteked. Hvornen̄ utmaalar Paulus hin̄ ſan̄a Gud fyrer Athenu Borgar Mon̄‑
um, er han̄ foor til þeirra med Chriſtne‑Boded? J honum lifum vier, erum vier og
hrærunſt vier, Act. 17. En̄ hvad er þad an̄ad en̄ þad, ſem hin̄ ſame Poſtule vitnar um̄
Chriſt? Col. 1. Ad i honum ſtande til ſaman̄s edur ſtandeſt aller Hluter. Þad er
vardveiteſt og ſtioorneſt af honum. Þvi ſeiger og Poſtulen̄, Heb. 1. Ad han̄ bere alla
Hlute med Orde ſijns Kraptar. Eg giet ecke bored allt þetta Foolk ſagde Moiſes vid
Gud, Num. 11. Þegar han̄ villde hafa ſig undan̄ þeigen̄ ad ſtijra einſamall Jſraels
Foolke, af hvoriu Ordtæke Ritningaren̄ar eg þad fillelega ælykta, ad ſa ſem ber alla
Hlute med ſijnu kroptuga Orde, han̄ ſtioornar ollum Hlutum med Gude Fodur og
Heilogum Anda bæde a Himne og Jordu, hvad ſialfur DRotten̄ ſamþycker, er han̄
ſeiger: Þad ſem Faderen̄ giorer, þad giorer Sonuren̄ eirnen̄ med, Joh. 5. ſem Von
er til, þvi han̄ ſeiger berlega, ad Faderen̄ ſie i ſier og han̄ i Fodurnum, Joh. 14. Jo‑
han̄es ſeiger, ad ORDJD hafe vered i ORDenu, en̄ hvilijkt þad ORDJ ſie, greiner
han̄ ſialfur, Joh. 5. So ſem Faderen̄ uppvekur og lijfgar þa Daudu, ſo lijfgar og
Sonuren̄ þa han̄ vill. Og þott han̄ hafe þad med morgum Dæmum ſan̄ad, þa er þad
ſamt af han̄s ſialfs Uppriſu allra kun̄ugaſt orded. Adrer Guds Men̄ hafa fyrer
han̄s Krapt uppvaked hina Daudu, en̄ eingen̄ hefur ſialfan̄ ſig af Daudum vaked, ne‑
ma han̄ eirn. Þetta vottar han̄ ſialfur. Þvi ſagde han̄ vid Gydinga. Briooted þi‑
er þetta Muſtere, en̄ eg ſkal þad a þrem Dogum upp aptur byggia, en̄ han̄ talade um̄
Muſtere ſijns Lijkama, ſeiger Joh. 2. Og um̄ Saalena ſeiger han̄, Þar fyrer elſkar
Faderen̄ mig, ad eg læt mijna Saal fra mier, ſo eg hana aptur take, eingen̄ tekur ha‑

na fra mier, enn eg legg hana fra mier sialfur. Eg hefe Valld til ad leggia hana fra mier, og Valld til hana aptur ad taka, og þessara ordsaka vegna hafa heilager Guds Menn i Ritninguñe yduglega kallad hann Gud, þvi Gud er alleina sa ed dasemdarverkenn giorer, Ps. 72. Eg hefe allareidu nockur Vitne þar til leidt af hinu Gamla Testamentenu, og mætte þo enn fleire telia. Enn Lærefveinarner hans og Postular, sem voru uppfræddet af honum, sau hann og skodudu, 1. Joh. 1. atu og drucku med honum, uppa hverra Lærdoom hans Kyrkia bygd er, Peir ed hans Vitnisburd hafa med sijnu eigenn Bloode underskrifad, og lated Lijfed fyrer þennann Sannleika, Peir luka aller einum Munne upp umm þetta. Hans Vitne hafe þier heyrt, er JEsus elskade, sem var Johannes, er Gudspialled ritad hefur. Enn hann talar enn þa framar, 1. Joh. 5. seigiande: Vier vitum ad Guds Sonur er komenn, og ad hann hefur giefed oss Hiarta til ad þeckia hinn Sannarlega, og ad vier sieum i hinum Sannarlega, þad er i Guds Syne; hann er sannur Gud og þad eilijfa Lijf. Rom. 1. giefur St. Paall Gude allra Hluta Skapara þann Titel, ad hann sie Blessadur umm allar Allder: Enn i sama Pistle Cap. 9. seiger hann umm JEsum Christ, af hverium (hann meinar Fedrunum) ad Christur er epter Holldenu, hvor ad er Gud yfer ollum Hlutum, blessadur ad eilijfu. Judas Postule DRottens, hann endar sinn Pistel med þessum Ordum: Gude alleina vijsum Frelsara vorum, sie Dijrd og Magt, Kraptur og Velldе, bæde nu og umm allar Allder. Peim somu Ordum sem Guds Eingieteñ Sonur hefur skipad oss syndugum Monnum ad kvedia Gud vorn Fodur i Drotteñlegre Bæn, Matth. 6. Med þeim somu avarpar hann hier vorn Frelsara, hvad hann munde ecke giort hafa, nema hann villde hafa honum Gudlegann Heidur veittann. DRottenn Gud þinn skalltu tilbidia og honum einum þioona, seiger Moyses Deut. 6. og 10. Og med þessum somu Ordum rak JEsus Diofulenn burt fra sier, er hann freistade hans, og sagdest munde giefa honum oll Rijke Veralldar, ef hann fielle framm og tilbæde sig, Matth. 4. Hvar af audsært er, ad einsomlum Gude, enn aungvum odrum tilheyrer soddann Lotning. Enn hvad seiger St. Paall umm JEsum, hann seiger ad i hans Nafne skule oll Knie sig beigia, bæde a Himnum og Jordunne, og under Jordunne, Phil. 2. Og so Menn vite ad hier er eingenn undantekenn, þa seiger Postulenn Hebr. 1. i Davids Orda Stad, ad aller Einglar Guds skule hann tilbidia. Enn ef þad skulu Einglarner giora, hvorier ed sia yduglega Guds Fodurs Auglit a Himnum, Matth. 18. þvi munu þa ecke skylldar til þess hinar Oædre Skiepnur? Pegar Johannes villde hafa tilbeded Eingelenn, þann er talade vid hann, Apoc. 19. þa varnade hann honum þess og sagde: Sia til, ad ei giorer þu þetta, tilbid þu Gud. Enn er hann fiell til Foota Guds Syne, þa aptrade hann honum ecke, helldur lagde sijna hægre Hond yfer hann, seigiande: Ottast ecke, Eg em hinn Fyrste og Sijdarste, Apoc. 1. Og hvad opt var DRottenn vor tilbedenn, jafnvel i sinne Auaud hier a Jordunne. Hin Canaaniska, Matth. 15. Maria Syster Lazari, Joh. 11. Hundrads Hofdingenn, Matth. 8. . Og adrer miklu fleire tilbadu hann, og hann audsijnde þar med,



ad

ad honum Guddoomlegur Heidur tilheyrde, ad hañ vard vid ollum þessum jafnskiott og þeir beiddu. Ræningeñ sem med honum Krossfestur var, tilbad hañ Daudvona, sialfañ komeñ ad Dauda, Luc. 23. þa sijnde JEsus fyrer Alvoru ad hañ Gud var, þvi hvorsu mætte hañ einum Stoorbrota Mañe Himnarijked giefa, nema hañ sialfur ætte þess Valld a Himnum. St. Stephanus Frumburdur hañs Vijslarvotta, hañ tilbad hañ midt i Andarslitrunum, og var hañ þa fullur af H. Anda, sem Lucas vottar, Act. 7. Heyrt hafde hañ med hvilijku Kalle ad JEsus lietst a Krossenum, er hañ sagde: Fader i þijnar Hendur fel eg miñ Anda, Luc. 23. Eñ hañ giørde þess eingañ Mun og hiñs er hañ sagde: HErra JEsu medtaktu miñ Anda. Hvar fyrer? Þvi hañ visse ad Fader og Sonur voru eitt, og Sonureñ Fodurnum ad allre Tign, Dijrd og Mætte samjafn epter Guddoomenum. Heidingiar þeir ed af Gude eckert vissu, og voru aan hañs i Heimenum, Eph. 2. þeir skøpudu sier adskiliañlegar Meiningar um God sijn, er þa hofdu þo ecke skapad, og meintu ad eirn være odrum undergiefeñ, eñ þvilijkt er eckert um JEsum ad þeinkia. So Eilijfur, so Allmaattugur, so Alvitur sem Fadereñ er, so er og Sonureñ, so sem hiñ Heilage Athanasius Lærefader hefur oss þad kiendt i siñe Trwarjaatningu. Jehova vor Gud, Jehova hañ er eirn seiger Moyses, Devt, 4. Eñ ef ecke er nema eirn Gud i Veruñe, og þad er aadur vottad ad JEsus sie Gud, hvernig maa hañ þa honum miñe vera? Og þvi seiger Postuleñ til Heb. 1. Ad hañ sie wtþryckeleg Mynd hañs Personu. Eg er Jehova, þad er mitt Nafn, og mijna Dijrd vil eg eingum giefa seiger DRotteñ, Esa. 42. Være nu ecke Guds Sonur Fodurnum ad ollu jafn, og være þetta Nafn ecke Guddoomlegrar Veru, i hvoriu ad eru Priaar adgreindar Personur, þvi munde Gud þa sialfur Giæskuñar Bruñur, hafa opeñberad sijna Dijrd med þessu Nafne, þeim sem oll Saalareñar Velferd aa þvi rijdur ad vita a hvorn þeir eiga ad trwa, og hallda eingañ honum jafnañ? Eñ hañ hefur skipad oss ad trwa aa Soneñ. Hvi munde hañ seigia vid Moysen, Exod. 3. Eg mun vera sa eg vera mun, og þad skalltu seigia Sonum Israelis, Sa ed vera mun, sende mig til ydar? Þvi munde hañ seigia fyrer Muñ Esajæ: Eg er Jehova, og fyrer utañ mig, er eingeñ Gud, Cap. 45. Munde nockud Guds Eingieteñ Sonur, sa ed er i Fodursins Skaute zanheidra siñ Fodur, þar med ad giora sialfañ sig honum jafnañ, nema hañ visse þad være so? Þvi seiger hañ þa, Apoc. 1. Eg em Alpha og Omega, Upphaf og Ender, sa sem er, og sa sem var, og sa sem koma mun, hiñ Allmaattuge. Þvi munde hañ seigia vid Philippum, er hañ beiddest epter ad meiga siaa Fodureñ? Phillppe, sa sem sier mig, hañ sier Fodureñ, trwer þu ecke ed eg em i Fodurnum, og Fadereñ i mier? Joh. 14. Þvi munde sialfur Fadereñ kalla hañ sijnu Nafne? Edur mun hañ sijna Dijrd odrum giefa? Þvi seiger hañ þa Jer. 23. Eg vil uppvekia David eitt Riettlaatt Sæde, saa ed mun Rijkia sem Konungur, og þad skal honum vel-luckast, og hañ skal Fremia Log og Riettinde a Jordu, aa hañs Dogum mun Juda hoolpeñ verda, og Israel ugglausbwa: þad mun vera Nafn hañs, er hañ mun nefna hañ med, Jehova vort Riettlæte:

Þvi

Þvi mun hañ aptur itreka þetta, i33. Cap. seigiande: A þeim Dogum mun Juda holp eñ verda og Jsrael tryggelega bwa, og sa ed kallar, hañ mun vera Jehova vort Riettlæte? Mun ei þetta vera hañ, sem oss er af Gude giørdur til Riettlætis, til Helgunar og eilijfrar Saaluhiaalpar? 1. Cor. 1. Hvar fyrer mun Gud Allsheriar eñ framar seigia uñ siñ Son, Hos. 1. Eñ eg skal Myskuna Hwsenu Juda, og frelsa þa fyrer Jehova þeirra Gud, og ei vil eg frelsa þa med Boga edur Sverde edur Strijde, Hestum edur Riddara Lide. Meñ þreifa aa þvi, ad þetta er i JEsu af Nazareth fullkomnad og framkomed. Hañ var aleñ i Faatækt, Luc. 2. Hañ uppoolst i Armood, hañ hafde ei þar hañ mætte Hofde sijnu adhalla, Matth. 8. Hañs Rijke var ecke af þessum Heime. Ecke strijddu hañs Þienarar fyrer hañ, Joh. 18. Hañ skipade Petre ad slijdra Sverded, Matth. 26. J sijnu mesta Yferlæte reid hañ eirnre Ösnu iñ til Jerusalem, Matth. 21. hvadañ hañ var eins og Oboota-Madur til Gaalgans wtleiddur, og hañs bestu Viner og Villdarmeñ eru deydder hañs vegna allañ Dageñ. Eñ þo er i öllu þessu Volæde Rijke Guds Sonar i hañs Barna Hiortum stærra orded eñ nockurt Konungs Rijke hefur uñ Æfe vered. So eg maa þad satt jaata, er Severus Sulpitius seiger, Lib. 2. Histor: Sacræ, uñ Draap Guds Barna under Diocletiano Keysara: Vier hofum alldrei frægare Sigur uñed, eñ þa vier ecke urdum med 10. Ara Offsooknum sigrader. Munde nu öllu þessu vera spaad uñ JEsum, edur hañ nefndur þvi Nafne, sem Gude einum er eigenlegt, og eingum odrum maa aan Syndar tilleggiast, nema hañ være eirnrar Veru med Gude Fodur, og honum samjafn ad öllu? Zacharias ecke af sialfum sier, ecke af eigeñ Hugbode sijnu, helldur fullur af Heilogum Anda seiger uñ Johañem, Luc. 1. Og þu Sveirn munt nefnast Spaamadur hins Hærsta, eñ þad er kuñugt ad Johañes var Fyrerreñare JEsu, og Eingill undañ hañs Auglite sendur, Mal. 3. Eñ ef hañ er hiñ allra Hærste, hvorneñ maa þa nockur honum hærre vera? Ef hañ seiger sialfur, Eg em hiñ Fyrste og Sijdarste; Apoc. 1. Hvor kañ honum þa fyrre ad vera? Og hvad hallded hefur vered uñ Messiam aa Hiervistar Dogum D Rotteñs, þad kieñer Johañes 5. seigiande: Þess meir sooktu þeir epter ad deyda hañ, ad hañ ecke einasta braut Hvijldardageñ, helldur sagde Gud ad vera siñ eigeñ Fodur, giørande sig jafnañ Gude, hvad hañ med þessum Ordum giørde: Miñ Fader erfidar allt hijngad til, og eg erfida, Sem villde hañ sagt hafa, miñ Fader er ei bundeñ vid Sabbatsdageñ, ad hañ ei stioorne öllum Hlutum bæde a Himne og Jordu, epter Villd siñe, so lækna eg og þa siwku, epter þvi Vallde sem eg hefe, og maa þvi ecke aa moote seigia, ad þesser Raunglaatu Meñ toludu riett i þessu. Paulus er skorenordur uñ þetta Efne, þegar hañ eggiar Christna Meñ aa Hoogværd og Lijtelæted, seigiande: Vered eins lynder og JEsus Christus var, hvor þoott hañ Guds Mynd være, hiellt hañ þad ecke fyrer Herfaang Gude jafn ad vera. Og hefe eg so med nockrum Rokum vitnad fyrer ydur, ad JEsus er Gud eilijfur, Almaattugur, alls Heidurs verdugur, og Fodurnum ad öllu jafn epter Guddoomenum, ecke þess vegna, Brædur mijner, ad eg

þurfe nockrum i þessum Safnade ad telia Trw hier um̄, þvi þad jata aller med Hiarta og Mun̄e, helldur ad eg i stuttu Maale audsijne wt af þessu H. Evangelio, hvilijkur han̄ sie, er vort auma Holld og Blood hefur uppa sig teked, hvar um̄ Johan̄es framar talar med þessum Ordum: Og Orded Vard Holld Og Bygde Med Osz. Hvor Ord ecke eiga þan̄ Veg ad skiliast, so sem ad Guddoomuren̄ sie i Man̄doom um̄breittur, hia Fod ur Lioosan̄a er eingen̄ Um̄breiting edur Mynd til Um̄breitingar, seiger Jacob Postule Cap. 1. En̄ þar han̄ nefner Fodur Liosan̄a, þa meinar han̄ Gud: En̄ þad er adur vottad, ad JEsus Christus sie san̄ur Gud, þar fyrer er þvi laangt fiærre, ad han̄ kun̄e hin̄e minstu Um̄breitingu underorpen̄ ad vera, og þoott ei være an̄ad til Vitnis hier um̄, þa eru Johan̄is eigen̄ Ord er hier standa skom̄u sijdar i Evangelio: Vier Saaum Han̄s Dijrd, Dijrd So Sem Eingietens Sonar Af Fodurnum. En̄ nær saau þeir hana? Ad son̄u i Kien̄ingun̄e, i Kraptaverkunum, i Skijrnen̄e, en̄ ecke sijdst þa han̄ forklaradest a Fiallenu, Matth. 17. og var þad hin̄ same er þeir hofdu eted og druck-ed med, 1. Joh. 1. So er þa ecke Guddoomuren̄ um̄breittur i Man̄doom, helldur hefur Guds Sonur Man̄doomlega Nattturu uppa sig teked, so sem Paulus til Hebreos Cap. 2. ad Orde kiemst, ad han̄ hafe ecke Einglana, helldur Abrahams Sæde a sig teked, teiknaude þar med, ad han̄ hafe Man̄doomen̄ teked i Samfielag og Einingu sin̄ar Guddoomlegu Persoonu, o g i þessum Ordum: Orded Vard Holld, er venilegur Ordshattur Ritningaren̄ar: so seiger Gen. 2. Adam vard ad lifande Saalu, þegar Gud blies lifande Anda i Man̄sins Naser, ecke þad ad Lijkamen̄ um̄breitteſt i Saal, helldur teiknast med þessu Orda tiltæke, hin allra nakvæmasta Eining a millum Saalar og Lijkama, hvor miog so er þessare lijk, þvi so sem Saal og Lijkame verda ad eirnre Persoonu, so urdu og Tvær Natturururnar i Christo, eirn Gud og Madur, þegar han̄ Holld og Blood uppa sig took, þetta vitnar allvijda H. Ritning, bæde i Spaadoomunum i gamla Testamentenu, sem og i Medkien̄ingu þeirra er saau og skodudu han̄, og hvorra Hendur a honum þreifudu, 1. Joh. 1. og saau þo han̄s Dijrd, so sem Eingietens Sonar af Fodurnum. Hin̄ fyrste Vottur i gamla Testamentenu er sialfur Gud, er han̄ sagde ad Kvin̄un̄ar Sæde skyllde i sundurmeria Hoggormsins Hofud, Gen. 3. Hvilijkt ad sie þetta Kvin̄un̄ar Sæde, þad vitnar Esajas Cap. 9. med þessum Ordum: Eitt Barn er osz fædt, og eirn Sonur er osz giefen̄, hvors Hofdingia Doomur er a han̄s Herdum, og han̄s Nafn er Undrunarlegur, Raad, Hetia, Kraptur, eilijfur Fader og Fridar Hofdinge. Siaed hier, Brædur mijner: Han̄ sem fæddur er, han̄ sem Spaamaduren̄ Barn kallar, han̄ nefner han̄ under eins Fodur Eilijfdaren̄ar, af hvoriu lioost er, ad han̄ er bæde Gud og Madur. Og ad þetta sie meint um̄ JEsum af Nazareth og ecke an̄ad Barn, vottar Esajas Cap. 7. Sia þu ad ein Jomfrw mun Oliett verda, og mun Son fæda, og han̄ mun hun kalla Im̄anuel, þad er Gud med osz. Þetta seiger Lucas Cap. 1. fram̄komed ad vera. Morg on̄ur Vitne mætte hier til leida ef þad Tijmen̄ leifde, en̄ i hinu Nija Testamentenu eru ecke færre. Hin̄ sterkaste Vottur

Vottur er Thomas Postule, hvor ed ecke villde trwa fyrr enn hann took a, enn þegar hann liet sijnar Fijngur i Naglaforenn, og sijna Hond i hanns Sijdu, þa æpte hann upp af Fagnade, og sagde: O Drottenn minn og Gud minn, Joh. 20. St. Paull sem var i Pridia Himen uppnumenn, og heyrde þar Oumrædeleg Ord, 2. Cor. 12. hann kallar hann hinn mikla Gud, og Frelsara JEsum Christum, Tit. 2. og hinn same seiger: Ad hann sie giörd ur af Sæde Davids epter Holldenu, Rom. 1. Mannsins Sonur sem talade vid Nicodemum, seigest vera a Himne, Joh. 3. og aptur seiger hann vid Gydinga, Joh. 8. Pier leitest vid ad deyda mig, eirn Mann sem seige ydur Sannleikann, og sialfur seiger hann, þegar hann hafde sialfur aptur teked Saalu sijna, Ande hefur ei Holld nie Bein, so sem þier siaed mig hafa, Luc. 24. Vier vitum ad ecke fædest af Manne nema Madur, enn Lucas seiger ad Maria hafe fædt sinn Eingieten Son, hvar fyrer ad Postulenn til Hebræos skrifar, ad hann sie hluttakande Hollds og Bloods eins og Smaa-Bornenn, Heb. 2. Paull seiger enn aptur, Col. 2. ad i honum bwe oll Fylling Guddoomsins Lijkamlega, þad er Reyndar fullkomlega og sannarlega.

I Foornum Gamla Testamentesins bioo Gud so sem i Skugga epterkomande Giæda, Hebr. 10. J Christo hofum vier sialfann Lijkamann, Col. 2. og hann bijr i honum eins og Saal Mannsins bijr i hanns Lijkama. Kraptur Guds bioo i hanns Spamonnum og odrum Heilogum, enn ecke vard hann ein Persona med þeim, hvad liosst er þar af, ad Guds Ande veik fra þeim a stundum, enn Guddoomurenn Christi hefur alldrei Manndoomenn vidskila orded, fra þvi fyrsta Augnablike Gietnadarens, og mun helldur alldrei verda umm alla Eilijfd. Pvi Eingillenn er hann bodade Moodur hanns Gietnadenn, Luc. 1. seiger ad hann mune drottna yfer Huse Jacobs ad eilijfu, þad er ad hann skule alldrei hanns Konungs Tign afleggia, hvor honum þo ecke er odruvijse meddeilld, enn fyrer Jbud Guddoomsins. Jaa þott hinn grimme Dande sundurslite Saal og Lijkama i Pijnunne, þa maatte hann þo ecke leysa þad Band Eiingarennar, sem var mille Guddooms og Manndooms, þvi hvorsu maatte hann af sialfum sier, og af eigenn Kroptum upprijsa ella? Eige veit eg hvort nockurt Vitne er sterkara edur liоosara umm Guddoom og Manndoom Christi i eirnre Persoonu, helldur enn St. Pauls. 1. Tim. 3. er hann seiger: Pad er mikell Leindardoomur Gudhrædslunnar (þad er Christenndoomsins) ad Gud er openberadur i Holldenu, Riettlættur i Andanum, er siedur af Einglunum, er Predikadur Heidingiunum, er truad i Heimenum, er uppnumenn i Dijrdenne. Hvad er þetta Br. M. ad Gud sie Riettlættur i Andanum? Kann nockur ad riettlæta þann Riettlaata i Jsrael? Enn þesser ad giæta, ad þetta Ord, þad er ad vidurkienna sannann og riettlaatann ad vera. So skrifar Luc. Cap. 7. ad allt Foolked og Thollheimtumennerner hafe riettlætt Gud, þad er prijsad hann og medkient sannann Gud ad vera, i Andanum seiger Postulenn, þad er epter Guddoomenum, so seiger Petur, 1. Pist. Cap. 3. umm Christ, ad hann sie deyddur epter Holldenu, enn lijfgadur, þad er, lifande epter Andanum, þad er Guddoomenum, og med sama Hætte seiger Paulus,

Rom. 1.

Rom. 1. ad hañ sie auglijstur Guds Sonur i Mætte epter Anda Heilagleikans, So er þa Meiningeñ, ad i Christi Hollde hafe Guddoomureñ so auglijst sig, ad Meñ hafe jaatad og þeckt, ad Gud hafe i honum bued. Er siedur af Einglunum, hvort helldur þad eru Postular Drottens, sem opt verda Einglar kallader, Mal. 2. Apoc. 1. edur og Guds Einglar, sem gyrnast ad skignast iñ i þeñañ Leyndardom, 1. Pet. 1. Pa eru hvorutveggiu þesser fullnooger til Sañinda. Er Predikadur Heidingium, er truad i Heimenum, Þesse Ord sijna oss, hvad hiner fyrstu Christner Meñ hafe hier uñ hallded, og hvorneñ Drottens eigeñ Postular hafa Christum predikad. Uppnumeñ i Dyrdeñe, hañ sem þeir vissu ad doo a Krossenum, af Daudum uppriseñ, hañ sem aat og drack med þeim, a hvorium þeirra Hendur þreifudu, 1. Joh. 1. hañ saau þeir til Himens faranda, med Guddoomlegre Dyrd. og Skyed took hañ i burtu fra þeirra Augum, Act. 1. O! hvilijk Dypt Audæfaña og Guds Vitsku. Hier maa allur Eingla og Maña Skilningur i hina mestu Undran falla. Petta er sa Leindardoomureñ, sem huleñ er fyrer Vitringum, eñ nu er openberadur Smælingium, Matth. 11. Hvor vill utseigia hañs Gietnad? Esa. 53. Hañ er fæddur af Fodurnum fyrer allar Allder, hvor vill þad utseigia? Hañ er gieteñ af Heilogum Anda i Tijmanum, Hvor vill þad utseigia? Hañ er fæddur af Meyu eirnre, hvor vill þad utseigia? Oss fallast Hendur af Forundran, þegar vier heyrum ad Moisis Stafur verdur ad Hoggorme, Exod. 7. Pegar Aarons Vondur bloomgast, Num. 17. Pegar Sooleñ stendur kyrr, Jos. 10. Pegar hun geingur uñ nockur Strik til baka aptur, 2. Reg. 20. Pa Biorgeñ klofna i sundur, Matth. 27. Pa Vatned skiptest i tvo Hlute, og stendur eins og Mwrveggur, Jos. 3. Pegar Elldureñ breñer ecke og giorer ongvañ Skada þvi sem i hañ er kastad, Dan. 3. Og er þad þo Ender allrar vorrar Undrunar, ad vier seigium þad sie ecke undarlegt, þott hañ sem Natturuna skapad hefur, giete uñbreitt Natturuñar Hattum. Eñ hvad skulum vier uñ þad seigia, ad Gud Natturuñar Madur verdur? Og hañ sem var fyrer allar Allder, hlijder Tijmans Logmaale? Ad Skapareñ fædest af Skiepnuñe? Og hañ sem Himen og Jord taka ecke, verdur i Moodurlijfe iñeluctur? Pesse Gietnadur, þesse Fæding eru so furdanleg, ad þegar Kraptur hins Hæsta yferskygger Riett-trwada Saalu, þa gietur hañ slijka Hlute vid heñe, ad Mañureñ fær þeim ecke wtklaked, og lætur sier nægia þar med, ad allt Tilefne þessa stoorundrunarlega Furdu-Verks er iñefaled i þañs Almætte, hañs Giæsku, hañs Vitsku og Omælañlegre Myskunseme, er þad giort hefur. Honum sie Lof, Dijrd og Heidur, uñ Allder Allda, AMEN.

## Añañ Dag Joola.

Gudspialled, Matth. 23. Cap.

J Þañ Tijma sagde JEsus til Gydinga Foolksins og Høfdingia Kieñemañaña: Siaaed, Eg sende til ydar Spaameñ, Spekinga og Skriftlærda, og nockra af þeim munud þier Aflijfa og Krossfesta, og suma munud þier Hwdstrijkia i Samkundu Hwsum ydar, og af añare Borg i adra munud þier þa offækia, so ad yfer ydur kome allt Riettlaatt Blood sem aa Jørdena wthellt er, i fraa Bloode Abels Riettlaata, allt til Bloods Sachariæ Sonar Barachiæ, hvorn þier draapud a millum Musteris og Altaris. Sañlega seige eg ydur, ad allt þetta mun koma yfer þessa Kynslood. Jerusalem, Jerusalem, þu sem aflijfar Spaameñena, og grijter þaa er til þijn eru sender, hvorsu opt hefe eg viliad samañsafna Sonum þijnum, lijka sem Hænañ samañsafnar Ungum sijnum under Vænge sier, og þier hafed ecke viliad? Siaaed, ydar Hws skal ydur i Eyde laated verda. Þviad eg seige ydur, ad þier munud eige siaa mig upp fra þessu, þaangad til þier seiged: Blessadur sie sa sem kiemur i Nafne DRottens.

## Exordium.

ÞEgar Meñ athuga a eina Sijdu Guds Owtseigiañlegañ Heilagleik, hañs Riettlæte og hañs Almætte: Og so añars Vegar, ad Heimureñ er nidursøktur i hid Vonda, 1. Joh. 5. hvar ed sialf Giæskañ lijted añad sier, helldur eñ þad sem heñe er Gagnstædelegast, sem er Jllskañ og Ogudlegar Athafner syndugra Maña, þa meigum vier med Blygdun vors Andlitis medkieña þad satt ad vera, sem Moyses seiger, Num. 14. DRotteñ er Þoleñmoodur og miøg Myskunsamur, fyrergiefande Synder og Misgiørder. Nu þoott ad øll Verøllden ætte i einu Hlioode ad prijsa þessa Guds Giæsku, þa mætte þo sijnast, ad hañ hefde hvad mest auglijst hana sijnu Foolke a Gamla Testamentesins Døgum, þvi uñ þa maa jaata þad satt ad vera, sem David seiger, ad Gud hafe ecke so giørt øllu Foolke, Ps. 147, Eñ hvøriu launade sw þverbrotna Kynslood sijnum Gude? Hañ klagar sialfur yfer þeim fyrer Moyse, Num. 14. Ad þeir hafe Tijusiñum møglad a moote sier i Eydemørkuñe. Hañ sette Miñing sijns Nafns a medal þeirra, Exod. 20 Þar var hañs Elldstoo og hañs Bwstadur, Esa. 31. Eñ þeir tooku vid Tialldbwd Molochs, og vid Stiørnu Guds þeirra Remphan, Act. 7. Þeir uñvelltu hañs Skickan, og yfergaafu Guds Bodord fyrer Maña Setninga, Matth. 15. Eñ aflijfudu hañs Spaameñ, sem til þeirra voru sender. Allra sijdarst sende hañ þeim Soneñ, og sagde, so sem JEsus kieñer i Epterlijkinguñe, Matth. 21. Þeir munu feila sier fyrer Syne mijnum, eñ þad villde ecke so til ganga; Þeir søgdu: Þesse er Erfingeñ, laatum oss raada hañ af Døgum, Jaa, vier vilium ecke laata þeñañ drottna yfer oss. So hafa þeir og sialfañ Guds Eingieteñ Son a Krosseñ uppheingt, þañs Pijnara og Posiula af Lijfe teked; Forsmaad þeirra Kieñingar, og eckert Ogiørt laated þad Gude kuñe til Stigdar ad verda; Hvar uñ JEsus þeim brixlar hier i Evangelio, og under eins fyrerseiger, hvad stoorkostleg Hefnd ad fylgia mune a epter so laangvaranlega Forsmaan Guds og hañs Heiløgu Orda, þegar þeir høfdu uppaused Bruñ Myskunareñar og uppfyllt Mælingu Syndaña: Þvi DRotteñ er eirn Hegnare, eirn vandlætande Gud, Jaa, eirn Hegnare er DRotteñ a sijnum Mootstødu Møñum, og sa ed ei mun gleyma þvi a sijnum Ovinum, seiger Nahum Spaamadur. So er nu øll sw Olucka komeñ yfer þessa vesølu Þiood;

sem Gud og hañs Spaameñ hafa fyrer sagt, af þvi ad þeir ecke þecktu siñ Vitinnar Tijma, Luc. 19. Og þeirra Hws er þeim i Eyde laated; So sem DRotteñ spaaer hier i Gudspiallenu; Eñ þeir wtrekner um̃ alla Verolld, hafa hvorge blijfañlegañ Samastad, nema þad er þeir þiggia verda af þeim er þeir sijst villdu. Nu høfum vier sied þeirra Ofarer, Brædur mijner; Eñ giæt- um ad þvi, ad hvad sem skrifad er, þad er skrifad oss til Lærdooms, Rom. 15. Ei sijdur þetta Heilaga Gudspiall, eñ hvørt añad; So ad vier wt af Gydingaña hrædelegu Dæme laatum oss um̃hugad vera ad leita DRottens medañ hañ er Naalægur, Esa. 55. ad ei følllum vier i nock- urt syndsamlegt Andvaraleyse, þvi ef Gud þyrmde ecke hinum Naatturlegu Kvistunum, þa er uggvænt ad hañ oss ei þyrme, Rom. 11. Eg hefe i Guds Nafne aasett i þetta Siñ, ad tala um̃ þa Hlute wt af Gudspiallenu, sem oss kuña ad hvetia til ad rækia Guds Heilaga Ord, og laga vorn Lifnad þar epter, so ad ei kome yfer oss þær straungu Hootaner, sem rætst hafa allt ofmiøg a hañs Foolke Gydingum. O DRotteñ hiaalpa hier til i Nafne JEsu Christi þijns Eingietens Sonar, og gief þijnum Børnum Naad Heilags Anda þar til, Amen, J JEsu Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ.

ÞAd er vidteked hiaa øllum Gudhræddum Moñum, ad Meñ hallda þad fyrer stoora Synd ad fara illa med Guds Gaafur, sem hañ hefur giefed oss til Notkunar og Lijfs Upphelldis, og faaer ei þeirra verdugur, sem ecke hyrder þær og medtekur med stærsta Þacklæte og Lofgiord vid Skaparañ; Eñ Ord DRotteñs, er eingeñ almeñeleg Gu- ds Giof: Þad kostade hiñ eilijfa Vijsdoom ecke nema faa Ord ad skapa Himen og Jø- rd af eingu Efne, Gen. 1. Af hvørium hañ allt til þessarar naalægrar Stundar gief- ur allre Skiepnu sitt Foodur. Eñ i Synda-Fallenu giordest Vañmaattu reñ so maatt ugur, ad hiñ goode Gud vard ad taka til Almættes sijns, so þad Endurskapad yrde sem Syndeñ og Diofulleñ hofdu vanskapad, og þad kostade hañ so myked, ad opeñbera oss siñ Vilia og Veg Saaluhiaalpareñar, ad þad ellijfa Ord Fodursins, Joh. 1. hiñ Ein- gietne Sonur Guds, sem er i hañs Skaute, hlaut Þioons Mynd aa sig ad taka og gior ast oss ad øllu lijkur, Phil. 2. ad Syndeñe fraatekeñe, jaa, ad þola hier i Eymdum vors Holldsallskonar Volæde og Vesolld. Hvad vyrdest ydur þa Born DRotteñs? Hvilijk Skom̃ er þad einum Synda Præl, ad troda under Fætur sier hina dijrmætu Perlu, Matth. 13. sem DRotteñ Dijrdareñar hefur kostad so miked uppaa, ecke siaalf um̃ sier til nockurra Nota, helldur hønum til Lækningar, til Myskunar og Syndalausu ar, sem var hañs Ovinur og Barn Reideñar? Rom. 5. Eg vil ecke faa mier til Orda, um̃ Postula DRotteñs JEsu, hvorier ed uppfyllt hafa Leifar Christi Harmkvæla aa sijnu Hollde fyrer hañs Lijkama, sem er Søfnudureñ, so sem Paall um̃ sig ritar, Col. 1. Ecke i þeirre Meiningu, ad hid allra miñsta vante aa Christi Pijsler til ad frida fyrer syndugt Mañkyn hiaa Gude, so ad þeir edur nockur añar þyrfte ad bæta hañs Forþien- ustu upp, helldur hiñs vegna, ad Guds Sonur hefur ecke einasta lided oss til Forlijkun- ar, helldur og til Epterdæmis, so sem Postuleñ til Hebræos 12. vottar. Þa hafa þess er Guds Meñ ad Dæme sijns HErra lided allskonar Hormungar, og ad Sijdurstu Daudañ, til ad byrta Guds Søfnude (hvørn Paulus hier nefner Christi Lijkama) ha- ñs Evangelium, og ad sijna þeim bæde med Orde og Epterdæme hina riettu Leid til Him

nadur vardveiter sitt Andyre, þa er allt med Mak, hvad hañ á, etc. Þad var vorum HErra fyrer miñstu, ad þvijnga Diøfuleñ epter siñe Villd. Añad var hañs Eyrende meira i Heimeñ, sem var ad lúka þa Sekt, er Mañkyned átte Gude ad gialld. Eñ so sem DRotteñ i Gamla Testamentenu leyfde Andskotanum ad sijna Megn sitt ødruhvoriu, Moñunum til Eptertektar, svo leifdest og þessu Illhvele ad vada hvad mest uppe og brúka Magt Myrkraña, á medañ Guds Sonur umgieckst hier á Jorduñe i Mynd eins Pigons, þeim øllum til Trúarstyrkingar, sem á hañs Nafn trúa villdu, ad þeir siá mættu ad so audvirdelegur, sem hañ var, þa være hañ þo sa sem af Gude sendur være til ad nidurbriootá Diøfulsins Verk, 1. Joh. 3. og med øllu ad sundurmola Høggormsins Høfud, Gen. 3. Hefde og Guds Eingieteñ Sonur strax sem hañ var til Hiñna fareñ, bunded so Hendurnar á Diøflenum, ad hañ hefde ecke feinged ødruhvoriu ad slá sig sialfañ á Muñeñ, þa kañ skie, ad Illþijded i Verølldeñe hefde sagt, eins og þesser søgdu; Ad fyrer Beelzebub hefde hañ útreked Diøflana á sijnum Hiervistar-Døgum, þvi gaf hañ hønum og nockurn Taum um Postulaña Daga, sem er ad siá af þeirra Giørninga Bok, og á medal añara þegar Satan mátte til Skamar sier medkieña, JEsum veit eg, og Paal þecke eg, eñ hvørier erud þier? Act. 19. Þad er og lijklegt, ad fátækum Fiskurum, sem hielldust fyrer Afskúm Verølldar, munde ecke hafa stoorum trúad vered i þeim Hlutum, sem so eru gagnstæder Holldlegre Skynseme, sem Christs Evangelium er, hefde hañ ei stadfest þeirra Predikun med þessum og ødrum jafnvægum Kraptaverkum. Þársamlega hefur Gud uppbygt sijna Kyrkiu hier á Jorduñe, hvør sem þar ad vill giæta, ad hañ hefur láted hana vaxa fyrer utañ allt Mañlegt Yferlæte, og alleina af þeim Hlutum, sem ecke standa i nockurs Mañs Vallde; nema hønum sie þad af Gude giefed, og er hun i þessu lijk Salomonis Musterе; sem bygt var fyrer utañ allt Hávreiste, so þar heyrdest ecke Axar edur Hamars Hliood, 1. Reg. 6. Seiged mier, hvørt nockur Atrúnadur hefur so byriast sem þesse? Edur so leinge stødugur stáded, nema hønum hafe framfylgt vered af Mañlegu Vallde? Eñ sijdañ hiñ AlhageSmidur hafde so fastañ Grundvøll lagt fyrer Spámeñena og Postulana, Eph. 2. Og allra hellst fyrer hiñ sterka Hyrningar-Stein, hvørn Gud hefur sett i Zion, Esa. 28. Ad hañ yrde Høfud Hyrningar um Alldur og Æfe, so ad vel mátte ofañ á byggia, þa hefur hañ láted Spádoomunum slota og Kraptaverkunum liña. Gud giører øngvañ Hlut forgiefens, og so sem þad var ecke Naudsynlegt ad Gud talade framar vid Meñena, edur opeñberade sig epter Postulaña Daga og Spámañaña, þar allur Guds Vilie er opeñber i þeirra Bookum og Psalmum; Svo lagde hañ og Hapt á Andskotañ epter þad hañ ei þurfte framar ad auglijsa sijna myklu Magt á hønum. Jeg veit eingeñ Røk til ad Gud hafe giefed Satan nockurn Tijma Taum, alleina til ad kvelia Meñena, þvi hañ hefur nog Rád til ad straffa Synder vorar án þess, helldur añadhvørt til ad reyna siña Barna Trú edur sialfum hønum til Hegningar. Eda seiged mier, nær Satan hefur auglijst sijna Magt, nema sier til Svijvirdu og sijnu Rijke til Nidurdreps? Sijdañ Gude hefur nu þocknast ad brúka

ta oñur Medøl til ad stioorna med siñe Kyrkiu, sem er hid skiæra Lioos Evangelii, þa vill Gud ecke leika fyrer Mañlegre Forvitne med Opeñberunum edur Kraptaverkum, þar þeir eru O-affsakañleger, sem eige vilia Guds Orde trwa. Herodes vænte ad hañ munde siaa Teikn af JEsu, Luc. 23. Eñ JEsus var ecke i Heimeñ komeñ til ad skiemta Herodi. Satan villde eirneñ ad hañ auglijste sitt Almætte aa Steinunum, Matth. 4. Eñ Christur sijnde honum ad hañ var sa Almaattuge Hyrningar-Steirn, sem hañs Høfud hefur i sundur broted. Þetta Foolk beiddest epter Teikne af Himne, og þootte þad ecke noog ad þeir saau Diofuleñ wtrekeñ, eñ HErrañ sagde, þeim skyllde ecke Teikn giefast nema Jonæ Spaamañs, Matth. 12. Þvi eins og Jonas var Ninive, munde Mañsins Sonur verda þessare Kynslood. Eñ þeir sem nu ecke vilia Gude trwa, nema þeir þykest Diofuleñ siaa, skule eckert Teikn faa, nema Mañsins Sonar, hvørs Greftrunar og Upprisu Teikn ad Jonas var. Og vilie þeir ecke þar med nægiast, munu þeir siaa hañs Teikn i Skijum Himens, er hañ kiemur med Magt og myklu Vellde, Matth. 24. ad fordæma bæde þeirra Hiaatrw og þeirra Vantrw, sem aa Jordu byggia.

J Añañ Maata vil eg taka mier Orsøk af þessum Maallausa Mañe til ad skoda aasamt ydur, hvørt ecke er sumum Moñum i Verolldu þessare eins miked Afaatt i Andlegre, so sem honum var i Lijkamlegre Heilsu. Ei þurfum vier laangt ad leita ad Dæmum þar uppa. Hvørra Kostur var betre, þeirra er søgdu ad Jesus ræke ut Dioflana fyrer Beelzebub, edur þessa Maalleysings? J hinu fyrsta Bodorde hefur Drotteñ tilreidt sier eitt Mustere i Mañenum, seigiande: Þu skallt ecke hafa añarlega Gude fyrer mier, Exod. 20. Hvad hañ utleggur i ødrum Stad, seigiande: Elska skallt þu Drotteñ Gud þiñ af øllu Hiarta þijnu, og allre Aundu þiñe, og øllu Hugskote þijnu, Deut. 6. Eñ strax i ødru Bodordenu hefur hañ skickad Kieñemañ til þessa Musteris, sem er Tungañ. Þegar Kieñemeñerner i Gamla Testamentenu fooru til Frietta vid Drotteñ, þa leitudu þeir hañs optast i Helgedoomenum, svo tekur og Tungañ af Hiartanu, allt þad hun tala skal, og af þess Nægd mæler Muñureñ: Eñ seiged mier: Verdur nockud Guds Mustere helgad, þo þar være Hiegomleg Æfeñtyr og Skrøksøgur þuldar? Eñ sijdur verdur Hiartad helgad med faanijtum Þaunkum. Ad eg tale ecke uñ skañarleg Ord og fiflslegt Hial, sem Christnum somer ecke, Eph. 5. Soddañ er undarleg Þøgn i Guds Eyrum. David bijdur ad Meñ sieu ecke eins og Hestar og Mwlar, hvørium Meñ verda Bitel og Beisl i Muñ ad leggia, Ps. 32. Eñ þad er Sorglegt ad vita hvørsu Maallausar Skiepnur eru fremre mørgum Gudlausum, sem vanhelga hañs H. Nafn, forsmaa hañs Ord, hæda ad hañs Þienurum, spotta hañs Kieñingar og alldrei edur allsialldañ taka sier hañs Dijrdarfulla Nafn i Muñ, nema þa þeir liuga edur sveria. Asnañ talade fordum Daga, Num. 22. Þegar Gud sende siñ Eingel til Balaam ad mootstanda honum og hun talade riett. Eñ þau Otømdu Villudijreñ sem ad nu uppalast i Heimenum a Andskotans Stalle hafa lært añad hvørt eckert edur illt ad tala, þa Gud sender sijna Eingla,



Mal.

Mal. 2. þad er ẏtna tienemeñ til þeſs ad leida þa til Himnarijkes. Eru ecke ſoddañ frætleitar Mañeſkiur halldnar af daufum Dioſle? Jeg vil nu ei tala um̃ Bænrækt- arleyſed i Heimenum. Hvor er ſa er leite ad Drottne og ækalle hañ i Neydeñe, Pſ. 59: Meñ lætaſt koma ſamañ i Huſe Guds, og Meñ kriupa þar nidur til ad Fridmæ- laſt vid hiñ Almættuga, eñ Gud giæfe þad være med ſañre Trw, Lijtelæte og aud- miukum Anda. Allt þad ſem ecke er af Trwñe, þad er Synd, Rom. 14. Sæ ſem bidur æn Trwar, hañ bidur ecke einuuges Forgiefens, helldur giorer ſijna Bæn ad Synd, ſo ſem David Oſkar þeim Ogudlegu, Pſ. 109. Og Meñ laſta Gud meir eñ dijrka med ſoddañ Bænum, verande ecke einaſta Mælhallter, helldur verr eñ Mæl- lauſer fyrer honum. Ecke þarf mikeñ Ordafiollda til ad vera Mælſniall fyrer Gude, ſem er Hiartnaña og Nyrnaña Rañſakare, Jer. 17. Eingeñ ſæ Moyſis Varer bæraſt, Exod. 14. og ſagde þo Gud vid hañ, þvi hroopar þu þañeñ til mijn? Kon- añ ſem um̃gietur, Matth. 9. talade ecke Ord fræ Muñe, helldur ſagde med ſiælfre ſier, ef ad eg mætte ad eins ſnerta Falld hañs Klæda, þa muñda eg Heilbrigd verda, þo vard Myſkunſemdaña Afgruñ ad byrta ſig fyrer heñe med þeſſum Ordum: Vert þu Hughrauſt Dotter, þijn Trwa giørde þig heilbrigda. Hvor kañ oſs hier um̃ betur ad underviſſa eñ ſæ Eingietne Sonur Fodurſins ſem er i hañs Skaute? Þar hañ ſeiger til ſiña Læreſveina, Matth. 6. Þegar þier bidieſt fyrer þa vered ecke margord- er ſo ſem Heidingiar þeir ed hyggia, ad þeir fyrer Mælge ſijna Bænheyrder verde. J Anda og Sañleika ber oſs ad bidia, Joh. 4. Þa tala Meñ noogu ſniallt fyrer Gude, þvi þad er ſæ Mælshættur ſem honum þocknaſt. Aller Meñ koſtgiæfa ad tala þeirre Twngu, ſem Konungureñ talar, ſo eiga vor BænarOrd Guds Orde ſamlijk ad vera, um̃ hvort David ſo talar: Herra, þijn Ord eru glooande, og þar epter vill hañ breita nær hañ ſeiger: Herra, mijnar Varer ſkulu þijnu Loſe utfleyta. So ſem heitt Vatn i Suduñe yfergeingur og ſkwmar, hvort ed ei kañ leingur ad hallda ſier i Katlenum fyrer Hita, og þad kallar St. Pæll, Rom. 12. ad vera glooande i Andanum, eñ þeſſar Glædur Hiartans æſtuudar hiñ vonde Mælleyſis Dioſull ad utſlockva a ein- hvorn Hætt, ſo þo vier tolum, þa ſkule Gud ecke heyra, og þo vier bidium, ſkulum vier ecke Bænheyrder verda, og þo vier utbreidum vorar Hendur, þa hylie þo Gud ſijn Augu fyrer oſs, Eſ. 1. Þvi glepur hañ fyrer oſs i Bæneñe med Hiegoomlegum Þaunkum, med Vantrw, med Epterlaungun til vorra Uxa og Bwgarda, eda med Velgiu Andans, ſo vier ecke medtekner, helldur utſkirpter verdum af Guds Muñe, Apoc. 3. O! oſs auma, vier erum ei betur a oſs komner eñ Lazarus, hvor ed ecke kuñe ad gaanga fyrr eñ Chriſtur ſkipade ad leyſa af honum Bondeñ, Joh. 11. Svo erum og vier, ad vier meigum ecke tala riett vid Gud i Bæneñe, nema hañ uppleyſe Fiot- ur vorrar Tungu, og utreke Mælleyſeſins Dioful, eñ legge Elldkol ſijns Anda a vor- ar ſaurugar Varer, Eſ. 6. Þañeñ erum vier nu vid Gud, eñ vid Naungañ ongvu betre. Hvor kañ ſtærre ad vera Tunguñar Breſtur eñ ſa, nær Meñ giora ſtooran Roog af þvi, ſem ecker er? Hvad kañ Vidurſtyggelegra ad hugſaſt edur talaſt, eñ ad

ad brwka Tunguna, hvor ad er eirn hiñ beste Limur a Mañsins Lijkama, sem giord er til ad lofa Gud siñ Skapara, til ad forsvara siñ Naunga, til ad semia Frid millum Sundurlyndra, ad brwka hana, seige eg, til ad myrda hiñ Saklausa, og liwga Lijf og Æru af sijnum Naunga? Lijgeñ er verre øllum ødrum Andskotans Illsku Aundum, þvi er sa plagadur med vondum Diofle og þungu Mælleyse, er sier hana temur. Oll Synd er Lijge, og fyrer hina fyrstu Andskotans Lijge, Gen. 3. er øll Synd iñkomeñ i Heimeñ, og sijdañ utruñeñ til allra Maña, og þott ad aller sieu ecke ad þessu fundner, þa er þo hier fyrer utañ mørg Tunguñar Vanbrukan, sem i allañ Mata er Osæmande. Þar eru þeir til, er eckert Velgiort þyker, utañ hvad þeir sialfer giora, og lasta añara Giorder, jafnvel þær, sem ecke Lastverdar eru. Falle margvijsleger Doomar uñ eirn Hlut, kieppast þeir vid ad filla þañ Flock, er færer a hiñ verra Veg. Þesser eru giarnañ sialfer hiner sijdstu og ødrum lakare, og af þvi þeir vita ad þeir eru sialfer illa ræmder, þa ætla þeir ad añara Ohroodur mune þeirra Affsokun verda. Þu Hræsnare, seiger Frelsareñ: Drag fyrst Bialkañ ut ur þijnu Auga, Luc. 6. Þad være vel adgiætande, ad sa være Heilskign sialfur, sem dæmer uñ añars Blindne. Jeg veit ad þad er Loflegt ad seigia einum til siña Lasta, þvi seiger Drotteñ Gud, Levit. 19. Þu skallt straffa þiñ Naunga, so þu berer ei Skulld hañs vegna, eñ þad a ad vera epter Skynseme, so ad Gaukureñ dæme ecke uñ Svana Hlioodeð, eda Hrafneñ uñ Sundfuglana. O! Herra Gud, hvor kañ ad vita hvad opt hañ syndgar? Ps. 19. Dæmed ecke, seiger Endurlausnareñ, so þier verded ecke dæmder, Fordæmed ecke, svo ad þier verded ecke Fordæmder; Þvi med þeim sama Mæler, sem þier ødrum mæled, mun ydur aptur mællt verda, Matth. 7. Hvad margur dæmer sialfañ sig Ovitande, þegar hañ adra dæmer fyrer sømu Leste, er hañ er mest hladeñ sialfur? Og eckert er tijdara eñ þad, ad Meñ lijta þad a ødrum, er þeir vita med sialfum sier, viliande þañeñ dyliast fyrer Møñunum. Þar eru og soddañ skynlausar Mañeskiur til, sem lijta siñ Naunga fyrer þa Hlute, sem honum er ecke i sialfs Vallde ad giora vid. Soddañ er eirn skadlegur Illsku Ande, þvi hvor hañ foraktar Fatækañ, hañ hæder Skaparañ, seiger Salomon, Prov. 17. Svo er og uñ hvad añad. Sie einhvor Vitgrañur, Vesæll, Ofrijdur, Malhalltur, eda hefur nockurn þvilijkañ Brest Natturuñar, sem hañ fær ecke adgiort, þa fiñast þo soddañ Vitstola Mañeskiur, sem ecke skamast sijn ad hafa þvilijkt ad Hæde. Heyr þu syndugur Madur, er hañ Fatækur, seig mier, J hvoriu ert þu Audugre? Þar hañ vantar Fiemunena, hvorium Molur og Rid kañ ad granda, eñ þig vantar Þeckingūna a Gude og sialfum þier: Er hañ Vanskapadur og ei so Giørvilegur; Þorer þu ad seigia þad lioott, sem Gud hefur so vera lated? Eñ lyt þig hid iñra, ef þu matt, og skoda hvorneñ Diofulleñ hefur afmyndad Saalu þijna, þad þu matt ecke lijta riettu Auga til Guds Skiepnu: Hañ er Vitgrañur og veit ei hvad giora byriar, Hvoriu ert þu Vitrare? Þar þu med Sialfs-Poottanum og hañs Nidran giorer þig honum þess Favijsare, sem Odur Madur er Heimskum argare. Lucifer, hvørs ad gieted er hier i Evangelio, var af þeim i Samaria Beelzebub

kalladur,

kalladur, þad er Flugna-Hofdinge, og þad af þvi, ad Illsku Ondunum i Loptenu verdur vid Flugur samlijkt, Eph. 6. eñ þad er þeirra Art ad sækia þar mest ad odrum lifande Skiepnum, sem þeim er Meinsamast, og hvar sem Horunded er af, þar setiast þær at og stijnga. Þeim eru hiner Ogudlegu Spottarar lijker, sem eru þrottker uñ añars Mein, og una sier illa nema einhvor steite sig, sveria sig so i Ættena ad þeir sieu af Fiandanum, uñ hvorn Paulus talar, Eph. 2. ad hañ sie eirn Hofdinge, sem Valld hafe i Loptenu, verkande i Overmoodskũar Bornum.

Þesse Mælhellte drottnar nu so miog i Heimenum, ad þott aller hate hana a odrum, sem Von er, þvi hun spiller hinum besta Hlut, sem er gott Mañord og Rykte, þa gieta so fæer Vaned Tungu sijna þar uñ, og eru þeir af Dioflenum þunglega plægader, sem þañeñ lynder eru, og være ollu betra ad þeim være Tungañ ur Muñe skoreñ, helldur eñ ad þeir sieu veltalande til þess, ad safna sier þeim Syndum, er þvi vallda, ad þeir ecke fæ eirn Vatns-Dropa til ad kiæla hana med, nær þeir pijnast i Helvijtis Ellde, Luc. 16. af hvorium St. Jacob seiger, ad þvilijkar Tungur sieu upptendradar. Þvi ef Endurlausnareñ skipar ad utstijnga þad Augad, sem hneixlar, Matth. 18. þa er lijklegt ad hid sama meige þess helldur uñ Tunguna seigia, sem hun er hæfare til ad drijgia fleire og verre Synder, nær hun misbrwkud er. O! HErra JEsu Christe, Þu Saklausa Guds Lamb, sem ecke upplaukst þijnum Muñe, helldur eñ Saudur til Slatrunar leiddur, Esa. 53. Virdst þu ad temia vora Tungu til ad lofa og dyrka þitt H. Nafn æ medañ vier hrekiunst i Utlegd þessare, so ad vier þier eilijft Lof sijngia meigum i Dijrd Hiñnañna, med ollum Utvolldum Guds Bornum, Amen.

## Suñudageñ i Midfostu.

Gudspialled, Joh. 6. Cap.

Þeim Tijma. Epter þetta foor JEsus yfer uñ Siæfar-Haf ed Galileæ, sem liggur vid Stadeñ Tiberiadis, og mykell Mañfiollde fylgde honum epter, þviad þeir sau hañs Jardteikn, sem hañ giorde a þeim sem Siwker voru. JEsus gieck uppæ eitt Fiall, og setteſt þar nidur med sinum Læresveinum: Eñ þa var Paaska Hætijd Gydinga nalæg. Og JEsus leit þa upp, og sa ad mikell Mañfiollde kom til hañs; Þa sagde hañ til Philippum: Hvadañ kaupum vier Braud so ad þesser ete? Eñ þetta sagde hañ til ad freista hañs þar med, þviad hañ visse sialfur hvad hañ villde giora. Philippus svarade honum: Braud fyrer Tvo Hundrud Peninga nægest þeim ecke, so ad hvor eirn fæ þa nockud lijted. Eirn af hañs Læresveinum, sem ad var Andreas Brooder Simonar Petri, sagde honum: Eitt Ung-Meñe er hier, sem hefur Fim Bigg-Braud og Tvo Fiska; Eñ hvad skal þetta a medal so margra? Þa sagde JEsu

ſus: Laated Meñena ſetiaſt nidur ad borda, Eñ þar var i þeim Stad Gras miked: Og þar ſetteſt nidur ad borda, Kall-Meñ ad Tolu, nær Fim̃ Puſunder. Eñ JEſus took Braudeñ, þa hañ hafde Packer giort, og fieck ſijnum Læreſveinum, eñ þeir feingu þeim ſem til Bordſins høfdu ſetſt: Slijkt hid ſama af Fiſkunum, ſo miked ſem hvør villde hafa. Eñ þa þeir voru metter, ſagde hañ til ſiña Læreſveina: Safned ſamañ þeim Leifum ſem af geingu, ſo ad eckert ſpilleſt. Eñ þeir ſøfnudu þeim ſamañ, og fylltu upp toolf Karfer medur þeſſar Leifar, af þeim Fim̃ Bygg-Braudum, hvoriar ad voru auk þeſſ ſem þeir høfdu neytt; Eñ þa er þeſſer Meñ ſau hvørt Teikn ad JEſus giørde, ſøgdu þeir: Peſſe er ſañarlega ſa Spaamadur ſem i Heimeñ ſkal koma. Eñ þa JEſus formerkte þad, ad þeir mundu koma og Handtaka hañ, og giøra hañ ad Konunge, Veik hañ Einſamañ burt, upp aptur a Fialled.

## Exordium.

EJNN af þeim Gømlu Spekingum ſagde Fordum Daga, ad Naatturañ være Anægd med Lijted: Eñ ef vier eigum ad ſkrifa under med hønum, þa munar nockru hvørneñ Naattwruñar Pijding er tekeñ, þvi ſkilieſt fyrer þetta ecke nema Saal og Lijkame i ſialfum ſier, þa er þad ſatt ad þau þurfa ecke mikels vid af Veralldlegum Munum ſier til Vidværis. Pegar Lijkameñ er O-ſollteñ og O-froſeñ, þa er hønum noog; Eñ Saaleñ gyrneſt ei framar, þa er hun Anægd og vardar litlu med hvøriu þeſſe Naudþurft er uppfylld, þvi eins vel unde Adam i Skiñ Kyrtlenum, Gen. 3. og Salomon i allre ſiñe Prijde, Matth. 6. og Johañes øllu betur i Ulfallds Felldenum, Matth. 3. helldur eñ Herodes i ſiñe Purpura Kaapu, Act. 12. Eñ ſie Naattwruñar Glooſa tekeñ fyrer Syndumſpillt Mañſins Edle, þa hefur hun nær þvi alldrei noog, hun er Elldenum lijk, ſem þeſſ meir logar ſem meir er i hañ bored. Blood-Sugañ ſlepper Hødeñe um̃ ſijder þegar hun er full orden; Eñ Syndumſpillt Naattura ſialldañ þvi er hun legſt aa. Sadningeñ er heñe Ordſøk til æ meira Hungurs. og hun verdur alldrei Sødd nema med Sulltenum. Vilie nockur ſedia heñar Fijkn, þa tekſt þad ecke med ødru Moote, eñ ad draga vid hana Foodred, ſvo hun drageſt ſialf upp um̃ ſijder. Hvad lijtels ad Naatturañ af ſialfre ſier vid þurfe, þad kieñer oſſ Frelſareñ hiaa Luc. 12. Cap. medal añara, þar hañ ſeiger: Vered ecke Hugſiuker fyrer ydru Lijfe, hvad þier ſkulud eta, eda fyrer ydar Lijkama, hvøriu þier ſkulud klædaſt; Er ecke Lijfed meir eñ Fædſlañ: Og Lijkameñ meir eñ Klædnadureñ? Eñ þoott ad vor Naattura þurfe ecke margra Hluta eda mikillrar Um̃ſorgunar vid, þa hefur Gud ſamt tilſkickad, ad Madureñ ſkule med Erfide næra ſig af Jørdunñe alla ſijna Lijf-Daga. Pad gamla Logmaal ſtendur eñ nu i Dag Oraſkad; J Sveita þijns Andlitis ſkallt þu þijns Brauds neyta, Gen. 3. Gud hefur lofad ad bleſſa Iſraels Erfide, Devt. 28. eñ ecke hañs Jdjuleyſe, Hañ giefur ad ſoñu þeim er hañ elſka ſitt Braud, þa þeir ſofa, Pſ. 127. Hañ lætur Himeneñ rigna, Jørdena groova, Fienadeñ Avaxtarſamañ verda og Vøtneñ af ſier giefa allra Handa Fiſka, þoott Madureñ ſofe: Eñ ſamt hefur hañ þo ecke hier med leyſt ad hañ ſkule alldrei Vaka, Onguum hefur hañ heited ad ſteikt Giæs ſkule fliuga i Muñ hønum. Leteñ er eirn lifande Daude og vakande Svefn, og viñur ecke nema til Ohocka, bæde hiaa Gude og Møñum. Ef nockur rietter Einhvørium Olmuſu og hañ neñer ecke vid ad taka; Hvad kañ ſa vid þri ſem giefur? Og ſvo er þad eirneigeñ, þegar Gud upplijkur ſiñe Milldu Hende til ad ſedia allar lifande

Skiepnur, og lætur Grased vaxa a Jørdunne, Fisken tyngast i Vøtnunum, Fienaden Avaxtast a Landenu; En Meñerner forsooma ad hyrda þessar Guds Gaafur; Er þa nockud Skullden hia vorum Skapara? Laangt fra þvi. Man liet hañ rigna ad søñu a Eydemørkuñe, Exod. 16. eñ siaalfer maattu Israels Syner þad samañ lesa, og alldrei veit eg ad Mañenum sie Atvinu siñe losad nema hañ hafe Umsorgun þar fyrer med sijnu Erfide, þo ecke med Heidinglegre Byksorg, med hvørre Gud bañar ad þijngia Hiørtun, Luc. 21. J einu Orde ad seigia, ad leita fyrst Guds Rijkis og hañs Riettlætis, svo oss allt añad Gott tilleggiest, Matth. 6. Pad er sa riette Vegur, eñ þadañ fraa liggia Tvær Ville-Gøtur; Øñur til Lete og Omeñsku, Øñur til ofmikellrar Ahyggiu. Baadar verda oss bañadar i upplesnu Evangelio; Af hvøriu eg vil þad alleina tala i þetta Siñ, Hvørneñ vier eigum Christelega og Ærlega ad leita Næringar vorrar. Hiaalpa oss hier til goode Myskunsemdaña Fader fyrer JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingen.

J Upphafe þessa H. Evangelii heyrum vier, B. G. E. ad þegar vor HErra foor yfer um Siooeñ, sem liggur vid Stadeñ Tyberias, Pa hafe Mañfiolde mykill fylgt hønum epter, þviad þeir saau þær Jardteikner er hañ giorde a þeim Siwku. Sañlega hefur þad vered Eyrende þessa Foolks, ad heyra JEsum og hañs Kieñingar, hvøriar hañ stadfeste med Kraptaverkunum. Peir telia ecke epter sier ad fylgia hønum epter, þo hañ geinge a Eydemorku, Pvi JEsus Gieck Uppa Eitt Fiall seiger Texteñ, og þeir fast ecke um þad ad þeir høfdu eckert til Matar med sier, og ei helldur var þar ad fa i Obygdeñe. Lær hier af, Christeñ Madur, hvørneñ þu att ad haga Daglega þijnu Framferde. Pesser voru 5000. ad Tøln, eñ Gud giæfe ad 5. findest i mørgum Pusundum a medal vor, sem laata sier umhugad vera, ad leita fyrst Guds Rijkis, og hañs Riettlætis, adur eñ þeir fara ad þijngia sitt Hiarta med Sorgum þessarar Næringar. Ecke er hier gieted um ad þetta hafe skied a Sabbats edur Hvijldardeige, þad hefur og ecke vered, þvi añars munde DRotteñ hafa byrst i Samkunduñe, og ecke vered a Reisu þañ sama Dag: Pu skallt og ecke meina ad þad sie noog ad þu hlauper til Kyrkiuñar hvørn helgañ Dag. Hvørn Dag attu ad offra Gude Packargiordeñe, þvi hvørn Dag er hañs Myskun nij og fersk yfer þijnu Høfde, Thren. 3. Pu medtekur a hvørium Deige þitt Daglegt Braud med þijnum Muñe, þvi a og þiñ Muñur Daglega ad lofa og prijsa hañ sem þig og allar lifande Skiepnur mettar med siñe Velþocknan, eñ þu ert Hyrdulijtell þar um, og þier þyker þeirre Stundu illa vared vera, sem þu giefur Gude til ad bidia hañ um sijna Blessan, eins og hønum sie veitt i þvi ad myskuna þier. Hvørn Afgud giører þu siaalfañ þig? Meinar þu ad eirnrar Stundar Erfide drage þier meira eñ hañs Adstod sem i einu Augnablike snere Vatne i Vijn, Joh. 2. Sem med siñe Blessan mettade 5000. Mañs af 5. Bygg-Braudum? Mun þitt Viku-Verk med allre þiñe Ahyggiu verka meir eñ hañ sem a 6. Døgum skapade hid Daasamlega Stoorvirke Himens og Jardar? Gen. 1. Og þo ert þu svoddañ Siaalfbyrgingur, ad þu villt ecke fa hañ i Lid med þier, adur eñ þu geingur til þijns Erfidis. Veitst þu ecke ad Madureñ lifer eige af einusamañ Braude, helldur af sierhvøriu Orde sem framgeingur af Guds Muñe, Devt. 8. Tveir Veiger liggia til alls Nægta i Heimenum, añar i giegnum mykel Umsvif med Martha, Luc. 10. Eñ añar med

med Mariu, ad þvo Fætur JEsu med sijnum Tarum, og þerra þær med Haar-Lockum sijnum, Joh. 11. Ecke seige eg ad þessar Leider kuñe ecke samañ ad liggia, og þoott siñ sare hvoria, ad þeir kuñe ecke bæder ad hafa sama Nætur-Stad, þvi Martha og Maria kuña vel ad forlijkast i einu Hwse, þo so, ad hin giore ecke þessa afskipta edur klage yfer heñe, þvi hun hefur wtvaled þad gooda Hlutskipted, Luc. 10. Luckulegt er þad Hws, hvar Forsioon og Gudrækne halldast i Hendur, so ad Maria bidur eñ Martha stidur, Eñ skule añars hvors æn vera, þa er sa længtum beiñe sem liggur Riettlijnis til Guds, helldur eñ hiñ sem lætur oss flækiast i krijngum hañs Skiepnur. Vor Ahyggia og Ervide kañ ad bregdast. Hvad margur viñur Bake brotnu, og þrijfst ecke samt? Eñ Gudrækneñ hefur alldrei nockrum brugdest, helldur verda þeim aller Hluter ad goodu, Jafnvel sialfur Skortureñ, sem ad Gud elska, Rom. 8. Sieu þeir Lijkamlega Volader, þa eru þeir i Gude Rijker, sieu þeir foracktader i Heimenum, þa eru þeir þo myk-els metner i Himnenum. Skal eg kalla hañ Rijkañ sem æ morg Naut og Saude? Og ecke myklu helldur hañ, sem æ Himens og Jardar Skapara. Ef Gud blessar ecke sijna Pioonustu med Rijkdoome, þa bregdst þad þo alldrei, ad hañ blesse hana med sialfum sier. Sa er ecke Rijkur sem myked æ, helldur hiñ sem lætur sier nægia: Eñ hañ sem hefur Gud, hañ er alltijd ænægdur, þvi þegar hañ hefur DRotteñ, þa skeyter hañ hvorke uñ Himen nie Jord, Ps. 73. Mig skal ecke furda þo Gud læte æ stundum sijna Elskendur vanta Audlegd Heims þessa, þvi hañ hefur giefed þeim længtum betra, sem er sialfañ sig. Þegar nockur hledur sitt Skip med nytsamlega Voru, þa lietter hañ æ sier Barlesteñe. Hvad skyllde hañ, sem fullur er af Gude, vilia þyngia sig med Mamona? Og mun hañ ei alla Vegana varast Diofulsins Snorur, sem Gud hefur Einusiñe veiddañ i sijnu Nete? Sa sem Gud hefur, hañ hefur meir eñ allt, og hañ sem ecke hefur Gud, hañ hefur miña eñ ecke neitt, svo verdur giefed þeim sem hefur, og teked fræ þeim sem ecke hefur, eirneigeñ þad hañ hefur edur meinar sig hafa, Marc. 4. Vier heyrum framveigis i Gudspiallenu ad DRotteñ seiger vid Philippum: Hvar Kaupum vier Braud, Svo Ad Þesser Neyte? Allt Valld hafde Jesus a Himne og Jordu, Matth. 28. þo rædgast hañ uñ þetta vid siñ Lærisvein, hvar þeir kuñe Fædslu ad kaupa. Med hvoriu Orde hañ bender þier til, christeñ Madur, hvorneñ þu ætt ad leita þiñar Atviñu, sem er i allañ leifelegañ Mæta. Ecke ad Andskotans Raade, þvi hañ stelur ollu þvi hañ rædur til, og ert þu þa hañs Pioofsnautur ef þu fyrer hañs Aeggian utvegar þier Foostur: Ecke med Okre, þvi Drotteñ seiger: Þu skallt ei fæ þijna Peninga þijnum Brodur til Okurs, Devt. 23. Ecke med Kwgun edur Hardrægne, þvi Gud hefur Andstygd a þeim, sem selur Lijtelmagnañ fyrer eirn Pening, og hiñ Fatæka fyrer eirn Skoo, Amos. 2. Næst þessum sitia i Andskotans Rijke Pioofarner, sem utrietta sijnar Hendur til añarlegra Fiærmuna, uñ hvoria St. Paall seiger, 1. Cor. 6. ad þeir ecke eignest eilijft Lijf, og i Sañleika ha er Pioofureñ Svijvirding bæde fyrer Gude og Moñum. Ad soñu seiger Syrach, Cap. 20. ad lijdanlegre sie Pioofureñ eñ Lygareñ, þo munu bæder til Olucku verda. Eñ þegar eirn

Odda Skielmer twiñar hvorutveggia samañ, mun hañ ecke flietta Oluckuñar Snøru handa sinum eigeñ Hálse? Og þott hañ meige umflya þa Tijmañlegu, þa er eckert vijsara, eñ ad honum sálgad verde med eilijfre Kyrkingu i Helvijte, þvi eg hafde nærre þvi sagt, ad það være Þioofsins Lucka, ef hañ yrde heingdur, ef skie mætte ad Gálgeñ frijade hañ frá Helvijte. Heyred þier Satans Born, ef nockrer erud, sem meiged Ord mijn heyra, edur til þeirra spyria: Erud þier eñ nu ecke Oþyrster vordner af Bloode fátæks Almuga hier i Lande? Nær vilied þier láta af ad utsiuga Hws þeirra sem ydur Forsorgun veita med sijnu Erfide? Skulu Guds Born leinge bera ydar Svijvirdingar? A Gud oss leinge reidur ad vera fyrer ydar Saker? Geingur ydur það ecke til Hiarta, ad hañ straffar þa fyrer ydar Skulld, sem ydur ala? Hafed þier ecke heyrt, hvorsu Gud vard reidur vid Israel fyrer einsamañ Achans Þiofnad? Jos. 7. Vited þier ecke hvad Drotteñ seiger hiá Zach. 5? Það er su Bolvan sem utgeingur yfer Landed, þvi aller Þioofar verda sagder froomer epter þessu Brefe, eñ eg vil það framkoma láta seiger Drotteñ Zebaoth, ad það skal koma yfer Þioofsens Hws, og þess Hws sem sver Falsklega vid mitt Nafn, og það skal blijfa i þeirra Hwse og eyda þvi med þess Stockum og Steinum. Þeinked þier þa, fyrst hañ lijdur ydur ad plága sijn Born medañ ydar Tijme yferstendur og Magt Myrkraña, það Gud mune vera eins og þier, af þvi hañ þeiger? Ps. 50. og sier þo þetta, og ecke vitia um sijder ydar Ogudlegs Athæfis i siñe Reide, sem ad breñur allt til nedsta Helvijtis, Devt. 32. Þar fyrer láted af Illu, O! þier Eytur-Ormar og Nodrukyn, og læred gott ad giora, Es. 1. Hvor hañ hefur stoled, hañ stele ei framar, helldur Erfide med Hondunum? Eph. 4. Maureñ er eirn veikur Hoopur, þo utvega þeir sijna Fædslu um Sumar-Tijmañ. Kunijseñ er og veikur Lijdur, þo byggia þeir sitt Hws a Steinum. Gras-Hoppurnar hafa aungvañ Konung, þo gánga þær allar ut i Hoop. Gongu-Rofañ viñur med sijnum Footum, og er i Konungaña Hybijlum, Prov. 30. Þetta giora hin Vesælustu Kvikinde Jardar, eñ hvad giored þier, sem Gud hefur giefed skynsemdarfulla Sál i Heilbrygdum Lijkama? O! þier hin hreckvijsa Kynslood, hvorsu vilied þier umflyia Guds Reide og Fyrerdæmingena? Matth. 23. nema þier ydrest af Hiarta. Gudspiallamadureñ seiger, ad Jesus hafe Talad þesse Ord til ad Freista Hañs med, þvi hañ visse Siálfur hvad hañ villde giora: Þu skallt og ecke láta þig það undra þott Gud reyne sijna, christeñ Madur: Gud freistar ad sonu einkis Mañs til Ills seiger Jacob, Cap. 1. Eñ til Goods freistar Gud Mañsins, so ad Reynsla vorrar Trwar fiñest Gullenu dijrmætare, 1. Pet. 1. til Lofs og Dijrdar Christo. Abraham vard freistadur, Gen. 22. so hañ være Fyrermyndun allra Abrahams Sona, su Cananiska, Matth. 15. So eingeñ ørvænte þott Gud meige þeigia um Stund vid Bænum siña Barna. Merkelegt er þetta, ad Drotteñ spyr Philippum ad þessu framar odrum; sañlega, þvi hañ hefur Trwarveikur vered, so ad það Dijrdlega Kraptaverk er hañ villde giora, mætte þess betur gánga honum til Hiarta. Eda hvad seiger vor HErra, Joh. 14. vid sama Læresvein, er hañ beidde ad hañ sijnde þeim Fodureñ, trwer þu

ecke

ecke ad Faderen̄ er i mier og eg i honum? Og varla ödruvijse voru hiner Lærisveinarner a sig komner, hvar fyrer Endurlausnaren̄ straffar þa, Matth. 16. þa þeir höfdu Braudeð epterskiled, seigiande: O þier Lijtiltrwader, en̄ þa skilied þier ecke, munuð þier ecke þau 5. Brauden̄ þar ed voru 5000. Man̄a? Og hvad margar Karfer þier upptookuð. So vill nu vor JEsus med Reynslun̄e og Auglijsingu sijns Almættis midt i Freistingun̄e smaamsaman̄ in̄planta Trwna hiaa sijnum Lærisveinum, og sama giörer han̄ en̄ nu i Dag, þa han̄ Hiaalpend und an̄dregur, edur lætur Veniuleg Lijfs-Medöl bresta. Gud naade, þoott Men̄ sieu Christi Lærisveinum i flestu Olijker nu i Heimenum, þa fin̄ast þo marger þeirra Lijkar i þessu, Braud fyrer 200. Peninga næger þeim ecke. En̄ hvad giörum vier? Strax sem vier höfum ecke fullan̄ Maga Matar, þa er þar Mun̄uren̄ fullur Örvæntingar. Ef þar er ecke allt fyrer Augunum sem eta skal, þa seiger hin̄ Vantrwade, þott Gud giöre Glugga a Himenen̄, þa kan̄ þad ecke ad skie ad Men̄ life, 2. Reg. 7.. En̄ hin̄ Matvande gietur ecke lifad vid þad Liettmete sem Daglega fellur, han̄ seiger, hvar vill þesse giefa oss Kiot a Eydemörku? Num. 11. Sijnest nockuð Ómögulegt, þa hæder Man̄leg Skynseme þar ad. Hvornen̄ skal þesse giefa oss sitt Hollð ad eta, og sitt Blood ad drecka? Joh. 6. Þesse Örvæntingaren̄ar og Oþolen̄mædis Ord byrgia tijdt og opt aptur Guds Myskunar Ydur, so han̄ lætur hinum Gudlausa verda epter Trw sin̄e. Heyred þier mier, er þa nockurt Ord O-maatt ugt fyrer Gude? Han̄ sem skapad hefur Steinen̄, kan̄ han̄ ecke ad giefa Vatn af honum? Num. 20. Han̄ sem giört hefur Vatned, hvad liett veiter honum ad um̄hverfa þvi i Vijn? Joh. 2. Er honum nockuð baagara ad laata mig fin̄a Gull i Fiskſins Mun̄e, helldur en̄ i Filsnum Jardar? Er ecke Hrafnen̄ graadug Skiepna? Þo liet han̄ Eliam faa af hans Mun̄e Kiot og Braud, 1. Reg. 17. Þressar nockur Oleum wt af Leyr-Kierum? Og þo fyllte Spaaman̄sins Bæn og Eckiun̄ar Trw so mörg Kier allt a Barma, 2. Reg. 4. Þu seiger Gud giöre ecke Kraptaverk a þessum Dögum so sem Eliæ. Eg medkien̄e þad, þvi þess giörest ecke Þorf. Gud hefur giört so mörg Kraptaverk sijdan̄ Eliæ Daga, ad sa sem ecke vill Gude trwa fyrer þau, han̄ munde ei helldur trwa þoott han̄ sæe Eliæ Kraptaverk. Þar eru ei helldur marger a vorum Dögum, sem þioona Gude eins og Elias. Være þar Eliæ Trw, hans Arvekne og Astundan i Guds Þionustu, þa trw mier til, ad Eliæ Gud er eirn og hin̄ same, og ecke um̄breytest han̄. Þu seiger: Gud giörer eingen̄ Kraptaverk; En̄ hvort er meira ad giöra alla Hlute af öngvu, Gen. 1: Eda ad giöra Vatn ad Vijne? Eda Steina ad Braud um: Mier sijnest eckert meira Kraptaverk en̄ þad, ad Gud kan̄ ad forsorga han̄ Vantrwada. Lærisveinarner gaatu ecke wtreked Tunglmeina Diöfulen̄ fyrer þeirra Vantrwar Saker, Matth. 17. En̄ eins myked Valld hefur Gud yfer Diöflenum sem yfer ödrum sijnum Skiepnum; Þvi sijnest mier þad yfer Maata myked Kraptaverk ad Gud lætur hinum Vantrwada og Oþacklaata nockurn Hlut ad nockru goodu verda. Þar fyrer E. G. V. Ef Man̄legur Veikleike kan̄ ad koma in̄ hiaa oss so sem Christi Lærisveinum, ef vier erum þeim lijker i Trwarveiken̄e, þa verum þeim ecke Olijker i Hlijdnen̄e:

Peir giordu slijkt er þeim var skipad, þeir stoodu ecke upp i Nøsunum a sijnum Herra, eins og ad være þetta Omedal, svo sem ad giora vorer Pioonustumeñ a þessum Døgum, sie þeim skipad nockud Oveniulegt, þa hroopar hiñ late, ad þar sie Leon a Veigenum, Prov. 22. Giorum þvi Verk Kallanar vorrar i Guds Otta, og vorpum allre vorre Ahyggiu uppa Gud, hañ mun þvi vel til Vegar koma, 1. Pet. 5. JEsus Took Brauded i sijnar Hendur seiger Textin: J þær blessudu Hendur took hañ þad, i hvoriar Fadereñ hefur lagt alla Hlute, Joh. 3.

Framar seiger Gudspialled ad hañ hafe lited Augunum til Himens og giort Packer. Ei þurfte vor Jesus þessarar Blessunar vid, til ad giora Kraptaverk fyrer sialfañ sig, þad vottar hañ sialfur hia Joh. 11. seigiande: Eg þacka þier Fader ad þu Bænheyrder mig, eñ eg visse þu munder mig Bænheyra, helldur vegna Foolksens sem i kringum er, so ad þeir trwe þad þu hefur sendt mig. Par fyrer skallt þu vita, Syndugur Madur, hvorium Gud giefur Daglega sijna Blessan, ad þiñ Endurlausnare hefur giefed þier eitt blessad Dæme hier med, þad þu trwa skyllder ad þijn Faung og Fæda verdur þa hellst til Blessunar þegar hun er i hañs Nafne blessud. Pad er ei miña verdt ad giæta feingens Fiar eñ ad abla, somu Atferd skal og christeñ Madur hafa til hvorstveggia. Jeg sagde fyrer skomu þess skyllde i Guds Otta leita, so seige eg eñ nu ad þess skal i Guds Otta neyta. Hvad seiger Drotteñ uñ þa sem treista a Maatt siñ og Megeñ, Es. 8. Vered iller þier Lijder, og reñed þo undañ, Herklæded ydur og hlauped þo a Flootta, bued ydur ut og flijed þo undañ, alykted eina Radagiord og þar verde þo ecke af, hafed Samtok, eñ þad hafe þo ongvañ Stad, og allt eins eru Sofn Maña og Adrætter fyrer utañ Blessan Drottens. Margur hyrdulaus meinar ad þetta sie ecke nema fanijtt Hial, sa ed ecke einasta hleipur sem añar Hundur til siñar Fædu, helldur og lætur sier alldrei til Hugar koma ad bidia Gud ad blessa sijn Efne. Øll Skiepnañ er good seiger Paall, 1. Tim. 4. og eckert burtkastande, ef hun er med Packlæte medtekeñ, þvi hun helgast fyrer Orded og Bænena. Eñ Gud nade hvada Packer hin Eilijfa Myskuñseme ma fa fyrer sijna Daglega Blessan hia morgum Mañe. Jeg meina þad sie sañast, ad vier setiunst nidur ad eta a stundum, og rijsum upp til ad dansa, Exod. 32. O! Mañeskia, er þa Gud leingur ad svipta eñ ad giefa, Reidur helldur eñ Myskunsamur ad vera, Syrach. 5. Laate hañ oss nockud mootdrægt tilfalla, þad liggur so þwngt med oss sem Blij, eñ ef hañ opnar sijna Myskunar-rijku Orlætis Hond, þad er hia oss liettara eñ Fis. Framveigis stendur i vorum Texta: AD JEsus Hafe FEinged sijnum Læresveinum BRauded, Eñ Peir Feingu Peim, Sem Til Bordsens Satu, Slijkt Hid Sama Af Fiskunum, Svo Miked Sem Hvor Villde Hafa. Petta sijnest mier vera ein agiæt Lijfs Regla fyrer christeñ Mañ, hvorneñ hañ a ad hondla med Guds Gafur, sem honum eru i Hendur feingnar. Jordeñ er Drottens og allt hvad þar iñe bygger, Ps. 24. Sijna Radsmeñ hefur hañ sett yfer Eigur sijnar: Hvor er sa trwe Radsmadur, seiger JEsus, Luc. 12. Er hañs Herra setur yfer sijn Hiw, þad hañ giefe þeim i riettañ Tijma þad sem þeim ber? Sæll er sa Pioon, sem hañs

hañs Herra fiñur ſvo giora, þa ed hañ kiemur. Eins og JEſus fieck ſijnum Læreſvein-um i Hendur Brauded, til ad utſkifta þvi medal Bordſitiandaña: So hefur hañ og þeim, er honum þocknaſt, afhendt Audlegd þeſſa Heims, til ad utbijta medal Þurftuga-ra. Þu ſkallt ecke meina, chriſteñ Madur, ad þad ſie allt þitt eiged ſem þu medferdis hef-ur. Pad Braud ſem afgangs er i þijnu Hwſe, er Forſorgun hiñs Volada. Sa Møttull er þu þarft ecke ad brwka, er Klæde hiñs Nakta, Luc. 3. Þau Faung ſem a añ-añ Veg hia þier ſkiemaſt og funa, eru Lijfsbiorg hiñs Naudþurftuga, þar fyrer giører þu ſo morgum Fatækum Oriett, ſem þu mætter añars, þier ad ſkadlitlu hiaalpa, ef þu þvi iñe helldur þa hiñ Volade, ſem er ſañur Ølmuſu Madur vid þarf. Ei þurfum vi-er ad briota nidur vorar Kornhlødur og giora adrar ſtærre, ſo leinge vier høfum Fatæ-ka hia oſs. Korned liggur Jdiulauſt i Hløduñe og verdur kañſkie uñ ſijder af Orm-um uppeted, eñ hia hinum Fatæka ber þad Avoxt, ſo ſem a Akrenum. Soddañ Ak-urmeñ eru nærſta þarfer. Jeg vil helldur fa einu Korne i Muñ hiñs Fatæka, helld-ur eñ Tiju i Jordena. Jeg vil helldur fa hinum Volada Tiju Peninga, eñ kaſta Hundrad a Maungarans Bord, hañ mun þvi med Puſundfolldum Abata apturſkila, ef ecke i þeſſum Heime, ſamt i Uppriſu Riettlatra, hvar eirn Vatnsdryckur mun ecke Olaunadur verda, Matth. 10. Hiñ Ranglate Radsmadur var Ofrægdur vid ſiñ Herra, ſvo ſem hefde hañ eydt hañs Gotze, Luc. 16. Meined þier ecke og ad Hroop hins Fatæka og Eckiuñar mune Ofrægia þa i Himnenum fyrer lifanda Gude, ſem liggia a Guds Gaſum, ſvo ſem Ormur a Gulle, og ala Agyrndena, eñ Fatækur fellur af Hwngre i Froſte og ſtoorre Neyd? þvi er illa wtſooad, ſem ofvel er geymt, þvi ſlijkt er Ellds-Matur og Orma Fæda, eñ kiemur ecke i Guds Kiſtuna, ſvo þad verde ad Him-neſkum Fieſiood, hvorium Molur og Rid kañ ecke ad granda, Matth. 6. Fordum Daga i Gamla Teſtamentenu, þa hafde Gud ſkiled ſier viſſar Foorner fyrer Synder-nar, ecke i þeirre Meiningu, ad Blood Uxaña og Hafraña kyñe ad hreinſa Samvitſk-urnar, helldur voru þar i fyrermyndud epterkomande Giæde, ſem er Blooded JEſu Chriſti, hvort ed hreinſar oſs af øllum vorum Syndum. Eñ þeſſer Tijda-Sider eru fyrer laungu aftekner, þar Guds Eingieteñ Sonur er i Holldenu opeñberadur, og hef-ur fyrer ſitt eiged Blood Einuſiñe iñgeinged i þad Allra Helgaſta ad wtvegadre eilijfre Endurlauſn, Ebr. 9. Po eiga vorar Foorner og Upplyptingar Offur Daglega ad uppſtijga i Himeneñ fyrer Guds Haſæte, ecke einaſta med Bæn og Andvarpan, helld-ur med Ølmuſugiørdum vid Fatæka. Þijnar Bæner og Ølmuſugiørder eru upp-ſtignar fyrer Gud, ſagde Poſtuleñ vid Cornelium, Act. 10. Pad er ſu Foorn ſem Gu-de lijkar framar eñ Blood Uxaña og Hafraña, þa þad framkiemur af Trwudu Hiartat þvi ſeiger Paulus til Heb. 13. Gott ad giora og ad wtbijta gleymed ecke, þviad ſlijk-Offur þocknaſt Gude. Hvar fyrer mun Gud lata ſuma Meñ vera Rijka, ſuma Fa-tæka i Heimenum? Mogulegt er honum ad lata alla vera jafna, og ongvañ þurſa añ-ars med. Margar eru Ordſaker þar til, eñ þo ecke hin ſijdſta, ad Gud vill lata ſig dijr-ka af ſoddañ Mañeſkium: Pad þier giordud einum af þeſſum miñſtu, þad giordud þier

mier

mier, seiger alls Hollds Doomare a sijdasta Deige, Matth. 25. Myked er þad, ad Gud sem er einkis Þurfe vill þiggia i þvi sem hinum Fatæka er gott giort: Þar eigum vier ad sijna vora Elsku til Guds, þar er Skoole vorrar Gudhrædslu, þar er þad Altare sem vier eigum ad leggia vora Gafu uppa.

Ein Brwdur skiemter sier vid Mynd sijns Brwdguma þar til hañ kiemur. Vor Meistare er nu tekeñ fra voru Hofde og hafeñ yfer alla Himna: Mig hafed þier ecke alltijd hia ydur, eñ Fatæka hafed þier hia ydur, sagde hañ, Joh. 12. Þeir eru hañs lifande Eptermynd, og hañs Limer sem fara Ut og Austur, og ecke hafa hvar þeir kuñe Hofde sijnu ad halla ad. Jeg meina ecke þa, sem fyrer Omensku saker bidia uñ Olmusu, edur hina Drambsomu Lete-Maga, sem alla Hlute heimta af sialfs Vallde, og giallda Bolvan og Formæling i Laun ef þeirra Hals er ecke fylltur, helldur þa, sem añadhvort hafa slited siñe Heilsu med Ærlegu Erfide, eda Gud hefur siñ Kross a Herdar lagt (þvi ecke heyre eg miñ Herra hafa nockurn Hlut med Sialfskylldu utheimt, þo hañ hefde allt Valld bæde a Himne og Jordu, Matth. 28.) Þa byriar ad medtaka i Jesu Nafne, og miñast þess, er Drotteñ baud, Devt. 15. Alla Tijma munu þar verda Fatæker i Landenu, þvi bijd eg þier og seige ad þu skuler uppliuka þiñe Hende fyrer þijnum Brodur sem þurftugur og Fatækur er i Landenu. Eñ þa þeir voru nu metter (seiger Texteñ) sagde hañ til siña Læresveina, safned samañ þeim Leyfum sem afgangs eru, svo ad eckert spillest, og ad þeir hafe fyllt upp toolf Karfer med Afgangs Leyfar. Hier kieñer vor Endurlausnare þier Syndugur Madur Logmal Christelegrar Forsioonar, sem er ad hyrda vel Guds Gafur. Gud sa allt þad hañ hafde skapad, og sia þad var allt harla gott seiger Ritningeñ, Gen. 1. Ef þad var allt gott fyrer honum i hvors Auglite Himnarner eru ecke hreiner, Job. 15. skyllde þa nockur Skiepna vera so audvirdeleg i þijnum Augum, O! þu sauruga Mañeskia, ad þu villder þar ecke uñ hyrda? O! Herra Gud, vorar Synder, vorar Synder, vort Oþacklæte og Ofmetnadur stendur mier nu fyrer Augum. Hvad giorum vier a þeim goodu Tijmunum, þegar Drotteñ lætur sijna Blessan an Mælingar falla af Himnum ofañ i vort Skaut? Munum vier nærsta hyrtner vera i Lande þessu ad samañsafna þeim Leyfum sem Afgangs verda? Er ecke allur añar Hiegoome dijrmætare i vorum Augum eñ þad sem Gud giefur oss til Foosturs: Velger ecke vora Pioonustumeñ vid Daglegre Fædslu? Hyrda Meñ stort uñ ad nijta Guds Gafur? So sem giora mætte. Þessar Synder berum vier sijdañ; Kañ skie þad kiæme sier æred vel i Dijrtijdeñe sem eingeñ nijter þegar allt er noog. O! hvad margañ kañ þa ad hwngra epter þvi sem hañ nu Foottredur? Þo kostum vier Skulldeñe uppa Gud, eñ eingeñ gaer ad þvi, ad oss er þesse Hefndeñ nærsta makleg, og ad vier hofum þad og añad Þusundsiñum verra forskullvad. Latum oss þessara Synda ydrast, Born mijn, og bær til Hiarta ganga med Gudrækelegum Asetninge ad breyta forsiallega framveiges. Gud hefur aungvañ Hlut giordañ forgiefens, svo vill hañ og ecke lata illa nie Onaudsynlega þar med fara. So er og ei helldur Gude þæg Metordagyrnd þeirra er sooa Guds Gafum til ad wtvega sier stoort Nafn þar

þar med. Hvad talar DRotten um̃ þa er giora sijnar Ölmusur fyrer Monum, San̄ lega seige eg ydur, þad þeir hafa sijn Laun wtteked seiger han̄, Matth. 6. Pad er Hiegooma Dijrd og faunijtt Hroos Man̄an̄a. Frelsaren̄ liet giefa þessu Foolke ad eta, þar til þeir voru metter, þvi er af gieck skipade han̄ upp ad safna. Pad er Christelegt ad metta Maga hin̄s Hwngrada, en̄ ad sedia Auga hin̄s graaduga er Onaudsynlegt: Par eru marger, sem Men̄ giora verre med ofur mykluOrlæte og alltijd reidubwna til ad gapa epter sama. Pad er Gudrækelegt ad safna Nægtum þegar vel geingur, svo þar sie til ad hiaalpa af i þeirre vondu Tijd. Pad er ein good Forsioon ad min̄ast þess um̄lidna, hugsa um̄ þad nærveranda, og siaa fyrer þvi Okomna, þo fyrer utan̄ Bwksorg og O-Christelega Ahyggiu. Josephs Fram̄syne er hroosad ad han̄ fyllte Kornhlodur Pharaonis aa þeim goodu Aarum, og frelsade Landed af Hwngre þa illa gieck, hvar fyrer han̄ kalladest Landsins Fader, Gen. 41. Pad er og haalfu verra ad eyda Onaudsynlega uppaa siaalfan̄ sig i Ofmetnade Klædnadaren̄s og Ohoofe Matar og Dryckiar. Ad son̄u hefur Gud ecke ban̄ad ad hafa Ijn̄dæle af sijnum Skiepnum, þo so, ad Men̄ gledie sig med Otta, og gleyme ecke hinum Purftuga. Ecke er vijst ad Doomur hin̄s Rijka hefde vorded svo skielfelega straangur, hefde ei Lazarus leiged Vatnande fyrer han̄s Dyrum, Luc. 16. Siaalfur Gud hefur giefed eitt Logmaal hier um̄ sijnu Folke, Devt. 16. Pu skallt vera gladur fyrer DRottne þijnum, þin̄ Sonur og þijn Dotter, þin̄ Pienare og þijn Ambaatt, Leviten̄ sem er in̄an̄ þin̄a Portdyra, hin̄ Framande, hin̄ Fodurlause, og Eckian̄ sem er hiaa þier i þeim Stad sem DRotten̄ Gud þin̄ hefur wtvaled þad han̄s Nafn skule hiaa þier bwa. Svo hefe eg nu ad nockru Leite sijnt þan̄ rietta Veg til ad leita Atvin̄u sin̄ar wt af þessu H. Evangelio, epter þvi sem eg skil af Guds Orde. Svo leited nu fyrst Guds Rijkis og han̄s Riettlætis, Matth. 6. Brwked Leyfeleg Medol i ollum ydar Athofnum og Utriettingum. Treysted Gude ad han̄ mune ydur og ydar forsorga, þa þier so giored, bidied þan̄ Almaattuga ad blessa ydar Vaung, ydar Karfer og Afgaangs Leyfar: Gleymed ecke hinum Purftuga og Voluda. Laated ydar Ölmusur fram̄koma af Trwn̄e og Elskun̄e til Guds og Naaungans. Hondled Vareigdarsamlega med Guds Giof, og vered þacklaater bæde i Orde og Verke, giored þetta, og munud þier alldrei illa fara. En̄ DRotten̄ Gud eilijfur Konungur og alleina Rijkur, han̄ uppfylle alla ydar Naudþurft epter sijnum Dijrdar Rijkdoome i Christo JEsu, Phil. 4. og giefe fyrer han̄s Forþienustu, ad þier ad afstaden̄e Armædu þessa Lijfs, mættud in̄leidder verda i Fognud ydvars Herra, til ad sitia til Bords med Abraham, Isaac og Jacob, Matth. 8. Og mettast af Nægdar Giædum Guds Hwss: Pad Bænheyre Myskunsamur Gud fyrer sin̄ Son JEsum Christum, Amen.

## Sun̄udagen̄ epter Midfǫstu.

Gudspialled, Joh. 8. Cap.

Þañ Tijma. JEſus ſagde til Gydingaña og Høfdingia Kieñemañaña: Hvør er ſa af ydur, þad hañ meige ſtraffa mig um̃ nockra Synd? Eñ ef eg ſeige ydur Sañleikañ, hvar fyrer trwed þier mier þa ecke? Hvør hañ er af Gude, ſa heyrer Guds Ord, þar fyrer heyre þier þau eige, þviad þier erud ei af Gude. Eñ Gydingarner ſvørudu, og ſøgdu til hañs: Seigium vier ecke vel, þad þu ert Samverſkur, og hefur Diøfuleñ? JEſus ſvarade: Eg hefe ecke Diøful, helldur heidra eg miñ Fødur, og þier Vanheidred mig.; Eg leita ei ad miñe Dijrd, ſa er ſem leitar og dæmer. Sañlega, Sañlega ſeige eg ydur, hvør hañ geimer mijn Ord, hañ mun ecke Daudañ ſiaa ad Eilijfu. Þa ſøgdu Gydingarner til hañs: Nu þeckium vier ad þu hefur Diøfuleñ. Abraham er daudur, og Spaameñerner, og þu ſeiger: Ef ad ſa er nockur ſem geymer mijn Ord, hañ ſkal ecke Daudañ ſmacka ad Eilijfu. Hvørt ertu meire Fødur vorum Abraham, hvør ed Framlideñ er, og Spaameñerner eru og Framlidner? Hvørn giører þu ſialfañ þig? JEſus ſvarade: Ef ad eg Vegſama mig ſialfur, þa er mijn Dijrd eingeñ. Miñ Fader er ſa ſem mig Vegſamar; hvørn þier ſeiged ydar Gud vera, og þier þecked hañ þo ecke: Eñ eg þecke hañ, og ef eg ſegde þad, eg þeckte hañ eige, þa være eg eirn Liwgare lijkur ydur; Helldur þecke eg hañ, og eg geyme hañs Ord. Abraham Fader ydar gladdeſt ad hañ ſkyllde ſiaa miñ Dag, og hañ ſaa hañ, og vard gladur vid. Þa ſøgdu Gydingar til hañs: Þu ert eñ ecke Fim̃tugur, og þo ſaaſtu Abraham? JEſus ſagde til þeirra: Sañlega, Sañlega ſeige eg ydur, ad aadur eñ Abraham var, em eg. Þa tooku þeir upp Steina, ſo ad þeir køſtudu a hañ. Eñ JEſus fordade ſier, og gieck wt wr Muſterenu.

## Exordium.

I Añarar Kongaña Bookar 9. Cap. Leſum vier, ad þegar Sendemadur Spaamañſins Eliſæi hafde ſmurt Jehu til Konungs yfer Jſrael, þa hafe hañs Herra Þienarar ſagt vid hañ: Hvad villde þeſſe Vitſyrringur til þijn? Svo voru nu Jorams Villdar-Meñ Lynder, af þvi þeir ecke þecktu DRottens Raad. Jeg er og hræddur um̃, ad þoott eg i Dag epter Guds Skipan, vilie ſmyria þeirra Saaler til Andlegra Konunga og Kieñemaña, ſem af Gude eru, med Himneſku Oleo, ſem er Guds Heilagt Ord, þa mune eg ecke betur wt lijta i þeirra Augum, ſem Holldlega Siñader eru, helldur eñ eirn Vitſyrringur, þegar eg tala um̃ þa Hlute ſem Guds Anda eru og Holldlegur Madur ecke ſkiniar, 1. Cor. 2. Og er mier þad fyrer miñſtu ad eg af Mañlegum Deige dæmdur verde, 1. Cor. 4. Þvi gott er ad eiga Hlutſkipte med St. Paale, vid hvørn Feſius Landsdoomare ſagde, þa hañ talade um̃ Chriſti Pijnu og Upprisu Framlideña, ad hañ være galeñ vordeñ, Act. 26. Eñ þad aangrar mig framar, ad Holld og Blood giefur

Siefur sier ecke Stunder til ad rannsaka Dypt og Hæd Guds Vitsku, og þa Speke sem han hef-ur Mǫnnum openberad. Þegar Felix heyrde talad um Trwna a Christum, um Hreinlijfed, um Riettlæted, um Epterkomande Doom, þa skielfest han vid, og lætur bijda ad hlusta til þess fyrer en han hefur Toomstund, Act. 24. Agrippa Konunge liggur vid ad verda Christen, en fyrer þvi ad han hefur annad ad sijsla, þa dregst þad undan, Act. 26. Hinn Rijke Ynglijngur vill ad sǫnu fær ad vita hiaa JEsu, hvad han skule giǫra svo han eignest eilijft Lijf; En þegar han heyrer ad han skule selia allar Eigner sijnar og giefa Fatækum, þa verdur han hryggur, Matth. 19. Hvad kiemur til þessa? Pad alleina, ad Menn hafa ecke vel smackad hvad sætur ad Gud er, Psl. 34. Og ecke komed Auga a þa Perluna sem Madurenn sær, og sellde allt hvad han ætte fyrer þa sǫmu, Matth. 13. Þvi eingenn gyrnest þad sem han ecke þecker. Og þad er Ordsǫkenn hvar fyrer ad Guds H. Ord verda af svo faanm medtekenn. Pad og annad, ad þar er svo mikill Ovinskapur a mille Holldsins og Andans, Gal. 5. Liossins og Myrkursins, Riettlætesins og Ranglætesins, Christum og Belial, 2. Cor. 6. Guds Kyrkiu og Skwrgodanna, ad eingenn kann til Christum ad koma, nema sa Himneske Faderenn drage hann, seiger Endurlausnarenn, Joh. 6. Hvar til han brwkar sitt H. Ord. Enn þeir ed ei hyrda um ad ganga i Liosenu, eda smacka hid gooda Guds Ord og Krapt Epterkomande Alldar, Ebr. 6. Hvǫrnenn meiga þeir umflija þad ad Myrkurenn hǫndle þa ecke? Samt eru þo Guds Ord Lijf og Ande svo sem Endurlausnarenn vottar, Joh. 6. Og Gulled er Gull þo þad verde af Svijnunum Foottroded. Svo er og þad Orded af Krossenum Christi Heimska þeim sem tapader verda; Enn oss sem Hvolpner verdum, er þad Kraptur Guds seiger Paulus, 1. Cor. 1. Eckert Strijd ætte vor Blessade Endurlausnare meira vid Synduga Menn hier a Jǫrdunne, enn ad giǫra Mismun a mille Holldsins og Andans, svo ad jafnvel Nicodemus sem var eirn Meistare i Israel, Joh. 3. og Gudhræddur Madur, han var i þessu nærsta Tornæmur. Ad eg ecke tale um þann Ogudlega Hoop Phariseæanna og Skriptlærdra sem alldrei villdu lata telia sier Trw hier um, og ecke lietu sier skiliast þad, þo han segde; Pier dæmed epter Holldenu, Joh. 8. Pier erud hier ad nedan, Eg er ad ofan. Og enn nu i þessu Samtale sem DRottenn a vid þann Ofyrerlatsama Flock Gydinga heyrum vier, ad a mille ber um þessa Spurningu. Eg vil um þad alleina tala i þetta Sinn, hvǫrnenn þeim hattad sie sem af Gude eru, wt af þessum Heilǫgu Ordum. HVǪR HANN ER AF GUDE, HANN HEYRER GUDS ORD. DRottenn gief oss þinn Anda hier til fyrer JESUM Christum, AMEN.

## Utleggingenn.

AF Gude eru aller Hluter i Ondverdu E. G. B. So sem þar stendur Gen. 1. J Upphafe skapade Gud Himen og Jord, og enn nu er þad svo, ad aller Hluter meiga af honum seigiast, þvi han stioornar og stijrer ǫllum Hlutum, fra þvi minsta Skridkvikende Jardar, allt til þess stærsta Dijrs sem er i NatturunnarRijke, og i honum erum vier, lifum vier og hrærunst vier, Act. 17. Enn ecke er þad þo Meining vors Endurlausnara i greindum Ordum. Þeir kallast og af Gude ad vera sem i hans Naadar Sattmaala eru innteknar, svo sem Israel var til forna kalladur Guds Foolk, af þvi þeim var Guds Sattmaal og hans Ord i Hendur feinged epter Guds Fyrerheite til Abraham. So erum og aller vier af Gude sem hǫfum Jklædst Jesu Christo i Skijrneńe, Gal. 3. og eigum ad samteingiast honum i Dijrdenne, Heilagleikanum og Ostraffannlegu Framferde, Eph. 6 Enn eins og þvi hattad er i voru Lijkamlegu Edle, ad Menn taka ecke alltijd Vǫxt edur Abl, nie adra Koste i Arf epter Forelldrana, og margur er sijnum Olijkur þo skylldur sie; Svo eru þar fleire Ismael helldur enn Isaac i Hwse DRottens, sem ad er christeleg Kyrkia, og þeir ganga ecke aller i Andanum sem þo eru i Ondverdu af Andanum

gledia ſig i Undran hañs Daaſemdarverka ; Eñ ſijdañ Gud hønum meira veitte i Fyrergiefnin-
gu Syndaña, og Fyrerheite þeſſ Bleſſada Kvinnuñar Sædis, Gen. 3. Pa eru Adams Nidiar
bitner fraa þeim Hlutum ſem heyra til Guds Dijrdar. Heilager Einglar ſem fraſne fyrer høn-
um ſtanda, hafa einaſta hiñ Dijrdlega Skapnad og Sæla-Viſt med Gude af hañs Hende þeig-
ed. Guds Sonur hefur Abrahams Sæde, eñ ecke Pa uppaa ſig teked, Heb. 2. Samt eru þeir
Pioonuſtuſamer Andar, Hebr. 1. Eñ Madureñ hvørn Gud hefur ſkapad, Skapadañ Endur-
leyſt, Endurleyſtañ Endurgieted, Endurgieteñ med JEſu Hollde og Bloode mettad og dryck-
iad, og uppliijſt med ſijnum Aſtgiøfum, hønum ſiñſt lijted þar til, og er nærſta Toomlaatur i
ſiñe Guds Pioonuſtu. Einglar komu og þioonudu Chriſto i hañs Mañdoome, Matth. 4. Eñ
hañs Foolk villde ecke þioona hønum ; Eingelleñ bodade hañs Gietnad, þeir prijſudu hañs Fæd-
ingu, Luc. 1. og 2. Eingelleñ kom af Himne og ſtyrkte hañ i Kvølene, Luc. 21. Eñ hañs Eig-
eñ giørdu hañs Saalu hryggva allt i Daudañ. Einglarner bodudu hañs Upprifu hiaa Grøf-
eñe, Eñ hañs Foolk og Preſtarner keyptu Lijwgvotta til ad mootſeigia heñe, Matth. 28. Oll
Skiepnañ mæner med wtriettu Høfde epter Guds Barna Auglijſingu, ſeiger Paulus, Rom. 8. Og
hun ſtynur til ſamans, og er til ſamans ſo ſem i Barnburde. Fyrer vora Skulld er Jørdeñ bølvud; Fyr-
er vora Skulld maa hun Pyrna og Piſila bera, Gen. 3. Fyrer vora Skulld er hun Prældoomen-
um underokud; Eñ i øllu þeſſu auglijſer hun þo Dijrd ſijns Skapara, hvørn Madureñ Van-
virder med Opacklæte og vondum Verkum. Ef ad þeſſer þegdu, þa mundu Steinarner bræd-
lega hroopa, ſagde Frelſareñ vid Gydinga, þa Børneñ ſwngu Hoſiaña, Matth. 21. O! Herra
Gud, Høfdu Steinarner Orſøk til ad hroopa þa Chriſtur Iñreid til Jeruſalem? Hvad høfdu
þeir ecke þegar hañ var af Jeruſalem ſo ſem Bølvan wtrekeñ? Ef Dauder Hluter maattu vat-
na vid, þa Lijſſins HErra kom til ſiñar Arfleifdar, Hvad maattu þeir ecke þegar Lijfed doo a
Kroſſenum? Skylldu Muſtereſins Vegger hafa giefed Hliood af ſier, hefdu Børneñ þagad? Hvad
var þa øll Verølldeñ ecke ſkylldug ad giøra, þar aller løſtudu, hæddu og bryxludu, og a Kroſſ-
ens Gaalga negldu heñar Skapara? Petta hroopar øll Natturañ fyrer O-Packlaatu og O-Gud-
legu Mañkyne a Pijſlar-Deige allrar Veralldareñar Lauſnara, þvi ſampijneſt hun ſijnum Ska-
para i hañs Pijnu, ſo ſem ecke hefde hun Nænu a ad giøra ſijns Embættis Skylldu, þar Mañ-
eſkiañ var ſo Aſſiña, ad hun Aflijfade ſiñ Lijfgiafara. Peſſe Natturuñar Umbrot hefe eg aſett
i Dag fyrer ydrum Kiærleika ad yfervega. Og vilium vier þar fyrer i þetta Siñ Hugleida þau
ſierlegußu Furduverk ſem ad ſkiedu i Pijnu vors Endurlauſnara, med þeim Lærdoomum ſem vier
oſſ til Huggunar og Aminingar taka meigum þar af. Styrk oſſ til þeſſa Verks, O! Gud i JE-
ſu Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ.

PAr urdu Myrkur yfer alla Jørdena, og Sooleñ miſte ſijna Byrtu, ſeiger i Textan-
um. Hvort þeſſe Formyrkvan hafe einaſta ſkied i Gydinga Lande, edur yfer all-
añ Heimeñ, vil eg i þetta ſiñ ecke faa mier til Orda. Vier vilium alleinaſta færa oſs i
Nit þetta Daaſemdarverk, til Gudrækelegrar Umþeinkingar, vitande ad þetta ſo vel
ſem aller Guds Giørningar eru ſkieder oſſ til Lærdooms. Hvorſu maatte hid bleſſada
Heimſins Lioos lijſa Mønunum, þar Mañaña Endurlauſnare var Kvaleñ, og þad
ſkiæra Lioos ſem upplijſer alla Meñ ſem koma i þeñañ Heim, Joh. 1. took under ad gañ-
ga? Sool Riettlæteſins, Mal. 4. var ſiñe Undergøngu nærre, þar Daudans Skug-
ga took til ad ſlaa yfer þau allra Helguſtu Augu ſem ad eru þuſundſiñum ſkiærare eñ
Sooleñ, Syr. 23. þvi var þeſſ øll Von, ad hin Natturlega ſkamadeſt ſijn ad lijſa.
Pegar Meñ ſiaa eirn vidurſtyggelegañ Hlut ſem aller blygdaſt vid Augunum ad lijta,
þa ſnua Meñ ſier undañ, edur jafnvel byrgia fyrer Augu ſier. Soolena kalla ſpaker
Meñ

Men̄ Auga Heimsins, hun hefur alldrei so blygdunarlaust Verk yfer ſkined sem þetta, ad Gudlauser Heidingiar og Hardsvijrader Gydingar toku Konung Dijrdaren̄ar af Lijfe, þar sialfst Lijfed var aflijfad, þar Daudans Daude mætte Dauda deya, Os. 13. þar Dagureñ vard ad Nottu Myrkrañа Verka, þvi byrger Nætturañ fyrer Augu sier, ad hun ei ſkyllde horfa a, ad Nætturuñar Herra være þañeñ af Dogum rædeñ. J mikelle Sorg og Harmkvælum plogudu Judar ad byrgia sijnar Asiæner. David gieck med huldu Hofde yfer um̄ Lækeñ Cidron, 2.Sam. 15. So seiger Micheas 3. Cap. Siæendurner munu til Skam̄ar verda, og Spaſagnararner blygdast, og þeir munu aller byrgia sijnar Asionur, þvi þar er ei Andsvar fra Drottne. Hier byrger Himeneñ sitt Andlit, og þoler þar ecke yfer, ad hañ sem uppfyller bæde Himen og Jord, 1. Reg. 8. Hañ i hvors Auglite Himnaña Himnar ecke eru hreiner, Job. 15. jæ, hvors Hæsæte ad Himeneñ er, Es.66. hañ ſkule a siñe Footſkør einum Madke og ecke Mañe lijkur verda, Ps. 22. Formyrkvun Soolareñar orsakast þar af (epter þvi sem hiner Vijsu seigia) ad Tungled geingur a mille Solareñar og Jardareñar. Po ſkiede þad ecke i þessare Formyrkvan, þar Tungled var i siñe Fyllingu, hvar fyrer hun var a moote Nætturuñe, þvi giefur þetta mier Orsøk til ad þeinkia þar um̄, ad vorar daudlegar Jllgiorder settu sig a mille Christi Mañdooms i Pijnuñe, og þess blijda Auglits Fodursins, hvor ad er Sool þeirrar Himneſku Jerusalem, Apoc. 21. so ad Geyslar hañs Fodurlegrar Elſku, nædu ecke ad ſkijna i giegnum þær, yfer þañ Elſkulegasta Guds, og sw Velþocknan sem hañ hefur i sijnum Eingietna Syne, Matth. 3. um̄hversdest, ef so mætte ad Orde komast, i hiñ stoora Byrdar Pwnga hañs Reide, hvor ed kvalde Jesu blessadañ Lijkama og Sææl allt til Daudans. Siæ hier, christeñ Madur, hañ brenheita Kiærleika lifanda Guds, sem hañ hefur elſkad þig med þegar þu varst hañs Ovinur, Rom. 5. Er ecke þetta ſkied til þess ad þijnar Synder ecke adſkilie þiñ Gud og þig? Es. 59. Og þegar ad Skugge Myrkraña Verka og hiner fwlu Dampar þiña Jllgiorda og Bodorda Brota stijga upp i Himeneñ fyrer hiñ riettlæta Doomara, ad Christur med siñe Forþienustu afmæde þær þa so sem añad Sky, Es. 44. og kaste þeim i Hafsins Diup, so þeirra ecke ad eilijfu miñst verde, Mich. 7. Um̄ þessa Formyrkvañ spæer Amos i 8.C. a þeñañ Hætt. A þeim Tijma vil eg læta Soolena undergæanga um̄ Middeige, og allt Landed myrkt verda a Deigenum. Miñ Herra Jesu, þvi munde ecke þad blessada Lioos Veralldareñar iñebyrgia siñ Liooma, þar Lioome Fodursins Dijrdar, og Jmynd hañs Guddoomlegrar Persoonu tæmde sialfañ sig, so sem Paulus ad Orde kiemst, Phil.2. og Guddoomureñ (so ad seigia) hulde sitt Auglit fyrer Mañdoomenum þegar Christur leid. Pvi ſkyllde ecke Landed myrkt verda? þegar Lijfsins Trie, hvors Blod ad þiena til Heidingiaña Lækningar, Apoc. 22. var af heidneña Mañа Myſkunarlausum Hondum upprætt af Lande lifande Mañа. Epter þad mikla Myrkur, sem ſkiede fordum i Ægyptalande, Exod. 10. þa fylgde Jsraels Sona Frelsun og Utleidsla af þvi Prældooms Hwseпu, eñ þessum̄ Myrkrum hefur fylgt eitt eilijft Frelse fra Syndareñar Prældoome. Epter Myrkureñ i Ægyptalande kom Slætrun

run Paaskalambsins, Exod. 12. en̄ i þessum Myrkrum verdur þad saña Paaskalamb slaatrad a Krossens Altare, sem ber allar Veralldareñar Synder, Joh. 1. Gydingar høfdu beded Christum um̄ Teikn af Himne, Luc. 11. Siaa hier er eitt Teikn sem skied er i Augum allrar Veralldareñar. Hvilijkur mun hañ vera i Dijrdeñe, sem so er kroptugur i Pijnuñe? Hvor mun hañ vera lifande, sem er so Volldugur deyande? Hvad øblugur mun hañ Drottnande, er so drottnar yfer hinum miklu Høfudskiepnum i Mynd eins Pioons lijdande? J Exod. B. 10. C. skipade Drotteñ Gud Moysi ad upprietta sijna Hønd til Himens, ad þar yrde Myrkur yfer allt Landed, og þar vard Myrkur og Poka i Egyptalande um̄ þriaa Daga, so eirn Madur saa ecke siñ Broodur, en̄ øllum Jsraels Sonum var lioost i þeirra Hybijlum: En̄ siaaed, hier er meir en̄ Moyses, hier er Jesus Sonur Guds lifanda, hañ utbreider baadar sijnar Hendur a moote Himnum a Krossens Trie, hier verdur Myrkur yfer allt Landed um̄ þriar Stunder: en̄ i þessu Myrkre hefur øllum andlegum Jsraels Sonum uppruñed eitt skiært og sañarlegt Lioos, so eirn Brooder þarf ei ødrum ad kieña, helldur verda þeir aller af Gude lærder, Jer. 31. og aller þeir ed a Jesum Christum trwa, hvor ed gaf sitt Lijf wt fyrer sijna Brædur, þeckia hvor añañ fyrer Systur og Brædur, og eru eitt Jñbyrdis so sem hañ og Sadereñ eru eitt, Joh. 17. O! Herra Gud, hvad skal eg hier til seigia? Eg vil bruka þad sama Orda Tiltæke sem Jeremias i 2. Cap. brukar yfer Syndum Jsraels Følks, seigiande: Himeneñ skyllde grwa þar yfer, hrædast og skielfast mikelega. Hier sijnest mier ad Himeneñ og Himnaña Kraptar giøre af Alvøru þessa Befalning Drotteñs. En̄ þu, christeñ Madur, sem ert hin veikasta Boola af Floode þessarar Veralldar, kiemur þier ecke til Hugar ad byrgia þitt Andlit sem er fullt af Ovirdingu, þegar þu heyrer ad Sooleñ sem Daglega uppreñur yfer þier Raanglaatum, Matth. 5. Hun sortnar i þijns Skapara herfelegustu Nidurlægingu? Veitst þu ecke hvad St. Paall seiger? Eph. 5. Pier vorud fordum Myrkur, en̄ nu erud þier Lioos i Drottne gaanged so sem Liossins Børn. J þessum miklu Myrkrum sem þu heyrer i Dag vera talad um̄, hefur Leonid af Kyne Juda, Apoc. 5. Myrkraña Høfdingia sigrad og Herleidinguna ad Herfaange teked, Eph. 4. og þig sem eilijflega aatter ad kveliast i ytstu Myrkrum med Op og Tañagnijstran, þrifed ut af þeirre Grifiuñe, hvar eckert Vatn var inne, Zach. 9. Paulus skrifade þesse Ord til þeirra i Epheso, sem af Heidingium høfdu Christner giørst. Pu ert og christeñ af Heidingium komeñ, hvorier af Gude eckert vissu. Seig mier; Hefur þu aflagt Verkeñ Myrkraña, sijdañ þu heyrder Jesum a Krossen fyrer þig uppheingdañ? Pegar þu les ad þu skuler Ottast og Elska Gud, en̄ fremur þo aan Um̄þeinkingar þad hønum vest lijkar, sem er syndugt Athæfe, eru ecke þad Myrkraña Verk? Pegar þu hugsar Jllt i þijnu Hiarta og fremur allar Odaader under Skyne Meynleysesins og Gudhrædsluñar, en̄ veitst þo ad hañ sier hvad i Myrkrunum er hulled, Syr 23. Heiter þad ecke ad vilia blinda hañ, sem Augad hefur skapad? Pa þu sier eirn Vesæling Naud lijda, sem eins miked færde iñ i Heimeñ og þu, og allt eins miked mun burtu bera, en̄ þu byrger þijn Augu fyrer hønum, og stijngur þau helldur wt, en̄

en̄ ad þu skuler sia Aumur a hönum, er þa ecke æred myrkt fyrer Augum þier? Þegar einum geingur i Vil, og han̄s Lucka er þier þo eingen̄ Afdrattur, en̄ þitt Hiarta grenist yfer þvi, og þu ert Nánngeygdur af hans Velgeingne, munt þu þa fyrer Myrkre þin̄ar Ofundar, gieta ratad þan̄ Veg sem Guds Born feta eiga in̄ til Lijfsins? Þegar þu elskar þijn eigen̄ Lijte, og Bialken̄ i þijnu Auga skygger a alla þijna Klæke, en̄ Flijsen̄ i Náungan̄s Auga, er þier ávallt fyrer Siooonum, Matth. 7. Er þad ecke Svartnætte eigen̄ Poottans? Þegar einhvor af Man̄legum Veikleika giörer edur talar þier nockud a moote, en̄ þu siest ecke fyrer, jafnvel ad voga þin̄e eigen̄ Velferd hönum til Olucku, mun þa ecke Myrkur Foolskun̄ar aptur byrgia þijn Augu, so þau gáe ecke ad, ad sam̄a Stund verde Hönd Högge feigen̄? Þegar Satan hefur þig uppa eitt ofurhátt Fiall, og sijner þier öll Rijke Veralldaren̄ar og þeirra Dijrd, Matth. 4. en̄ þu veitst upp yfer þier stendur Drotten̄ Gud þin̄, sem þu alleina átt a d tilbidia, munu þa ecke ren̄a a þig tvær Grijmur, hvorium helldur þu eiger ad þiena Gude edur Mam̄on? Ecke munu þeir aller vera, sem med goodre Samvitsku hroosa kun̄e, ad ecke hafe vorded myrkt fyrer Augum sier i þvilijku Tilfelle. Þegar dæma á mille Broodur og Broodur, a millum Bloods og Bloods, en̄ hin̄ Vollduge ber Fie i Doomen̄, eda Otten̄ kvelur, eda Vinattan̄ kytlar þa Hönd, sem á Sverdenu helldur; Mun þa ei Andskoten̄ setia Brillur uppa Riettarans Naser, so han̄ ecke fáe ram̄ad þan̄ Höggstad sem han̄ ætte? Villdum vier nu ren̄a vorum Augum frá Giálijfe Veralldar þessarar um̄ stundarsaker, og bera þesse Verk saman̄ vid Lioos Guds heilögu Orda, þa þyker mier ecke Olijklegt ad Andlit vorrar Samvitsku munde rodna fyrer Gude. Med hvorium Augum skal eg lijta þin̄ Broodur Joab, sagde Abner fordum Daga, þegar Hasael ran̄ epter hönum i Bardaganum, ef ad eg slæ þig i Hel? 2. Sam. 2. En̄ hvoriu vilium vier Gude eilijfum Konunge og alleina rijkum svara, þar vier höfum han̄s Son Krossfestan̄? og fyrer vor Myrkra Verk, er Magt Myrkran̄a yfer han̄ komen̄. Munum vier þora helldur en̄ Tollheimtumaduren̄, Luc. 18. ad lypta Augum vorum upp til Himens? Munum vier diarfare verda en̄ vor Fader Adam? Sá er falde sig fyrer Gude, og þorde ecke ad lijta han̄s Auglit, Gen. 3. Þar fyrer, christen̄ Madur, kan̄ast þar vid, ad þier ber Blygdun þijns Andlitis, en̄ hönum ber Dijrden̄ og Heidren̄, Dan. 9.

J An̄an̄ Máta seiger Pijslar-Sagan̄, Ad Fortiallded i Musterenu hafe i Sundurrifnad frá Ofan̄verdu, Allt Nidur i Giegn. Von var ad þad Mustered sem var med Höndum giört, munde ei standast þa Ogn, ad hid Dijrdlega Mustere han̄s Lijkama var nidurbroted, Joh. 2. Þetta Fortialld adskyllde þad Allra-Heilagasta frá sialfu Musterenu, hvar in̄e var á Dögum Salomonis, Sáttmáls-Orken̄, Nádarstoollen̄ og Vondur Aaronis, sem voru Skugge epterkomande Giæda, Heb. 9. Þvi sundur-rifnar Fortialldet, ad Skuggen̄ yrde burttekin̄, þar vier höfum sialfa Hlutena. Ork Sáttmálans mille Guds og Man̄a var uppfest á Krossens Trie. JEsus sem er eirn Nádar-Stooll i sijnu Bloode, Rom. 3. var hier öllum giefen̄. Kvisturen̄ af Root Jesse var bloomgadur, Es. 11. Lijfsins Braud var af Himnum ofankomed

 komed

komed og øllum framboded, so ad hvor sem æte þar af, skyllde ei Daudann smacka ad Eilijfu, Joh. 6. Jnn fyrer Fortiallded i þad Allra-Helgasta, mætte ei gaanga nema hinn Ædste Kiennemann Eitt Sinn a Are, enn þad rifnar hier i sundur, til ad audsijna þar med, ad hinn Ædste Biskup vorra Saalna, er fyrer sitt eiged Blood, Einusinne inngeingenn i þad Allra-Helgasta, ad ætvegadre eilijfre Endurlausn, Ebr. 9. Þar fyrer er oss nu þad Allra-Helgasta opnad, sem er i Himnenum, so vier høfum frijann Tilgaang til þess Himneska Naadar-Stools, af hvors Fyllingu vier høfum aller medteked Naad fyrer Naad, Joh. 1. Ei mætte Almuge Manna inngaanga fyrer Fortiallded i Musterenu, Levit. 16. enn hier er þad sundur-rifed fyrer hanns Dauda, sem hefur fullnægt Løgmaalenu, og lided fyrer þad, sem vier med vorum Syndum høfdum forskulldad, so ad hvør eirn Riett-trwadur er Guds Kiennemadur i sijnu Hiarta, Apoc. 1. sem er hanns Mustere. Hann hefur Fortiallded i sundur-rifed, og þar med i burtu teked þann Veggenn, sem mille var, og giort eitt af baadum, Eph. 2. so þar yrde eitt Sauda-Hws og eirn Hyrder, Joh 10. Og ei være framar Kall edur Kona, Þræll nie Frelsinge, Gydingur nie Griskur, helldur aller eitt i Christo JEsu, Gal. 3. Kiennemanna-Høfdingenn hafde ædur rifed sijn Klæde a moote Guds Bode, er hann kiennde Frelsaranum Gudlostun: Enn Gud Allsheriar uppa þad hann audsijnde, ad hann og hanns Selskapur væru seker i þeirre Ohæfu, hann lætur Fortiallded sundur-rifna. Þesse Atburdur ætte nu ad kienna oss mijner Elskanleger, ad sundur-rijfa ecke vor Klæde, helldur Hiortu vor med heitre Ydran, Joel. 2. Giæt ad syndug Manneskia, hvad Ovidurkvæmelegt þad er, ad þinn Lausnare haanger a hinum smaanarlegasta Krossens Gaalga. Hanns Hørund er sundurslited af Hwdstrokunum, sundurmared af Hoggunum, sundur-rifed af Þyrne-Broddum, sundur stwnged af Nøglunum, sundurflakande af Saarum og Benium, og Loksins sundurkramed, sundurkreist og sundurmared af Guds Elldlegum Reide-Svipum og Obærelegum Þwnga þinna Synda, sem hann hefur bored og Hegningarennar sem a honum laa, uppa þad þu hefder Fridenn, Es. 53. Þegar þu villt þetta fyrer þier virda, þa mætte þier under eins til Hugar koma, ad draga þa Skijluna fraa Augum Saalar þinnar, sem þar leinge hefur fyrerhaanged, og glepur so fyrer þijnum innra Manne, ad þu þecker hvorke Gud nie sialfann þig. Villt þu vera Guds andlegur Kiennemadur i þijnu Hiarta, sem ad er hanns Mustere, þa byriar þier ad athuga i hvada Herberge hann vill bwa, sem er i einu sundurknosudu Hiarta, Es. 57. Foorner Gamla Testamentesins eru ad sønnu fyrer JEsu dijrmætu Foorn a Krossens Altare afmaadar og ad øngvu giordar, enn þar fyrer skallt þu ecke meina, ad þu eiger øngva Skulld Gude ad giallda. Enn hvilijkt er þad Offred sem hønum þocknast? Þar seiger David fraa i Ps. 40. Blood Uxanna og Hafranna þocknast þier ecke: Enn harmþrwngenn og sundurknosadann Anda munt þu ecke fyrerlijta, Ps. 51. J Pridia Mæta seigia Gudspiallamennerner, Ad Jordenn Hafe Skolfed. Hvad hrædelegur hefur Jardskiaalfte þesse vered, Born mijn? Þar ecke einasta Fialled Golgatha, a hvoriu ad stood DRottens Kross, helldur øll Verølldenn hefur leiked a Reideskiaalfe. Plinius eirn

eirn heideñ Madur seiger fra, ad a Valldstiornar Døgum Tiberii Keysara um̃ þetta Skeid, hafe 14. Stader i Gricklande og i þeirre miñe Asia i Gruñ nidur falled, hvorra Nofn Cornelius Tacitus i añare Book siña Añala oll upptelur. Hefur nu þesse skielfelege Jardskialfte vered eitt Teikn Guds Allmattugs Heiptar Reide, þar hañs Eingieteñ Sonur, i hvorium honum alleina velþocknast, Matth. 3. er fyrer añarlegar Synder af hinum synduguſtu so hardlega wtleikeñ, þad giefur Messias til Vitundar i Ps. 18. med þessare Harma-Klogun: Daudans Angist hefur um̃krijngt mig, og Belials Becker hafa Ognad mier; Eg kallade til DRottens, og Jordeñ titrade og skalf, og Grundvollur Fiallaña hrærdest og um̃turnadest, þvi hañ vard reidur. O! miñ HErra Gud, hvad stoor er þijn Poleñmæde yfer Syndeñe og Ogudlegu Mañaña Athæfe? Hier gieck so mykel Ognan a, ad Jordeñ gat ecke stadest under þeim Pwn-ga, þa heñar Skapare leid. Natturañ took ad glidna i sundur, þvi þær Hendurnar voru a Krosseñ negldar, sem vega heñar Pwnga med einum Fijngre og iñelykia Siaf-ar Hafed i sijnum Hnefa, Es. 45. Hañ ber alla Hlute med Orde sijns Kraptar, Ebr. 1. Pvi skylldu þa ecke aller Hluter sundurbresta, þa hañ sem hefur Ord eilijfs Lijfs, Joh. 6. matte deya? Pegar Logmaled var Fordum wtgiefed, þa skalf Jordeñ, og Fiolleñ bifudust og titrudu eins og eitt Stra, Exod. 19. Eñ sia, hier liggur oll Log-malsins Bolvan a þeim, sem Logmaled hafde wtgiefed, eñ hafde þo i allañ Mata uppfyllt Logmaled. Pvi skielfur Jordeñ af Ognan, ad su Handskrifteñ sem moote oss var, er boreñ uppa Tried, og a Krosseñ negld, Col. 2. eñ Evangelium, sem er Kraptur Guds til Saluhialpar, ollum þeim sem trwa, Rom. 1. er hier underskrifad med hañs Bloode, sem vordeñ er Bolvan fyrer oss, Gal. 3. Core, Datan og Abir-am mogludu moote Gude, þar fyrer urdu þeir lifande i Jordena nidur ad fara, Num. 16. Eñ meire Mootmæle hefur þu hier þolad miñ HErra JEsu, þvi er ei ad furda, þo Jordeñ opne sig, og bioode sig til ad svelgia þa Ogudlegu Skalka, sem þad Saklausa Guds Lamb høfdu a Krosseñ neglt? Eñ hier siaum vier ad þitt Blood er Forlijkun fyrer allar Veralldareñar Synder, ad þijnum Kvolurum hefur þyrmt vered fyrer þijna Bæn i þiñe bitru Pijnu, Luc. 23. Eñ Natturañ ma sampijnast sijnum Gude. Peir høfdu hroopad til Forna, Krossfestu hañ, Krossfestu hañ, eñ hier opnar Jordeñ siñ Muñ til ad kuñgiora þitt Sakleyse og aklaga Gydinga. Pegar Adam neytte þess forbodna Avaxtar Jardareñar, þa var Jorduñe bolvad, Gen. 3. Eñ su Bol-van linadest fyrer þess Fyrerheitna Sædis Skulld. Nu ma sijnast ad Jordeñ, þar hiñ Añar Adam, sem er DRotteñ af Himne, var pijndur a heñe, ad hun kvijde vid ad heñe verde ad nyu bolvad med eilijfre Bolvan. O! HErra Himneske Fader, Fader allrar Nadar og Myskunseme, vier meigum jata þad um̃ oss, sem Jeremias seiger i 5. Cap. Ad vier høfum hardar Asioonur, so sem eirn Steirn, og vilium ecke um̃venda oss. Vor Hiortu eru hardare eñ Klettur, þar Biorgeñ i sundur klofna og Jordeñ skielfur, eñ oss kiemur ei til Hugar ad lata oss Ogna þær Synder, sem hafa þiñ Son Krossfestañ. Grafer Framlideña Lukust Upp; Eñ vier erum so dauder i Syndun-

um

um, og so diupt nidur grafnar i Ranglæted, ad vier faaum ei rised upp wr hiñe fwlu Grof Hollds og Bloods a mootevorum HErra. Af þijns Eingietens Sonar Sijdu, sem er Hella vors Hiaalprædis, wtreñur Blood og Vatn, Joh. 19. Eñ af vorum Augum gietur ei stocked eitt Ydranar Taar.

Jordeñ Skalf Og Biorgeñ i sundur klofnudu a Pijnu Deige vors Herra. O! hvad meiga vor Hiortu vera Steinum hardare, þar Miñing Drottens Dauda, er vier holldum a þessum Deige, kañ þau ecke ad mykia til Ydranar og Apturhvarfs fra Ogudlegu Athæfe. O! hvad stoor Munur er þo a millum Guds og Maña, ad hañs Hiarta brestur yfer einum ydrande Syndara, so hañ hlijtur honum Mykunsamur ad vera, Jer. 31. eñ Syndarans Hiarta er so Obifañlegt, ad Jesu dijrmæta Blood, fyrer hvoriu oll Verollldeñ liek a Reideskaalse, þad fær ecke orkad þvi, ad Madureñ graate sijna Synd fyrer Gude. O! þu almaattuge Gud sem alla Hlute kant framar ad giora, eñ vier kuñum ad hugsa edur mæla, Eph. 3. Umskier þu vor Eyru og Hiortu med Sverde þiña H. Orda, so ad þau meige fiña til Synda siña og Christi bitru Kvalar: Laat oss medañ Naadartijmeñ eñ nu yferstendur þeinkia þar til, ad hañ mun aptur koma i Skyum Himens med Magt og miklu Vellde, Ellldureñ mun breña fyrer hañs Auglite, i hvorium Himnarner munu forgaanga, med stoor Brestum, og Hofudskiepnurnar af Hita braadna, aadur eñ allt þetta skier, 2. Pet. 3. O! Herra Gud; Gief oss þa ad vier upphefium vor Hofud, so ad vier þeckium vorn Vitiunar Tijma, so vier lærum ad fela oss i Biargskorunum, sem eru blessadar Under þijns Eingietens Sonar, og þar i dyliast medañ Reideñ fram hiaa geingur, Es. 26. svo ad vier a þeirre vondu Tijd mættum fraskilder þeim Ogudlegu, er Jesum ad nyu Krossfesta og Footroda hañs Blood, Hebr. 10. Þvo vorn Skrwda i Lambsins Bloode, Apoc. 7. og med þvi dijrdlega Skarte iñgaanga i hañs Brwdkaup og þa himnesku Jerusalem, til ad lofa þig Eilijflega, þu Haaleita Guddoomsins Preñing. Þad veite oss Gud Fader, Sonur og H. Ande fyrer Christi blessada Forþienustu, A M E N.

# A Paaska Dageñ.

Gudspialled, Marc. 16. Cap.

OG þa ed Þvott-Dagureñ var umlideñ, keyptu þær Maria Magdalena, og Maria Jacobi og Salome, dijrdleg Smyrsl, ad þær kiæme og smyrde JEsum. Og miøg sneiña Morguns eirn Þvott-Dagaña, Komu þær til Grafareñar um Soolar Uppruna. Og þær sogdu sijn a mille: Hvør mun vellta fyrer oss Steinenum af Grafarmuñanum? Og sem þær litu þaangad, saau þær ad Steirneñ var afvelltur. Eñ hañ var ad søñu nærsta mykell. Og þær geingu iñ i Grøfena, og saau eitt Ungmeñe sitia til hægre Hlidar,

Klidar, skrijddañ sijdu Klæde hvijtu, og þær urdu Ottaslegnar. Eñ hañ sagde til þeirra: Eige skulud þier hrædast. Þier leited ad hinum Krossfesta JEsu af Nazareth, hañ er Uppriseñ, og er ecke hier. Siaaed þañ Stad hvar þeir løgdu hañ; Helldur fared þier burt og seiged hañs Læresveinum og Petre, ad hañ mune gaanga fyrer ydur i Galilæam. Þar munud þier siaa hañ, so sem hañ sagde ydur.

## Exordium.

SA STeirn sem Uppbyggendur hafa burtu kastad, Hañ er vordeñ ad Høfde Hyrningar, af DRottne er þesse, og er Undarlegur fyrer Møñum, A þessum Deige hefur DRotteñ þad giørt, Fognum og verum Glader a hønum, seiger David Konungur, Psalm. 118. Ad þetta Kvæde sie ordt uñ Mañkynsins Frelsara, vottar siaalfur hañ, Matth 21. Er hañ þijder þeñañ Spaadoom uppa sig, hvør og so i hañs Dauda og Upprisu ad øllu Leite fraamkomeñ er. Hvørneñ þeir hafe hønum burtkastad, þad høfum vier heyrt a nuulidnum Føstu Tijma. Eñ hefde DRotteñ ad eins vort auma Holld og Blood uppa sig teked, og daaed i þvi sama fyrer allar Veralldareñar Synder, þa hefde hañ ad søñu ad fullu løked þa Skulld er vier aattum Gude ad giallda, Þar fyrer sagde hañ under sitt Andlaat, haangande a Krossenum, ad þad Fullkomnad være, Joh, 19. Eñ ecke vorum vier vijsser i þvi, ad hañ hefde gollded fyrer oss hiñ Sijdarsta Pening, nema hañ hefde af Fiøtrum Daudans leystur vered, og þad sama kuñgiøra laated, og siaalfur sig opeñberad, Og þvi kalla eg þad riett sagt, ad JEsus Christus sie ad Høfde Hyrningar vorden i siñe Dijrdlegu Upprisu. A þessum Deige hefur DROTTeñ þad giørt, seiger Skaallded, Fognum þvi og verum glader a hønum: Eckert hefur oss þvilijkt til Kiæte bored, Guds Børn, og eingeñ Sool hefur oss fegre uppruñed eñ þesse. Adra Daga giører hin Naatturlega Sooleñ med siñe Uppraas; Eñ þeñañ Sool Riettlætesins siaalf, er hina skapad hefur. Þegar Sooleñ uppreñur, formyrkvar hun hin øñur Himentungleñ med Naalægd siñar Byrtu; Eñ þegar hin Blessada Sool Riettlætesins under gieck i hinu bitra Dauda Strijde, þa giørde hun hina myrkva, þegar hun hvad fegurst skein: So miked Valld hafde hañ bæde a Himne og Jordu midt i Daudanum, hvad mikla Byrte mun hun þa bera i allra Riett-truadra Hiørtum i siñe Upprisu? Þesse hin fagra Sool rañ oss upp fyrst allra i hañs Gietnade, eñ strax epter hañs Fædingu droou braadlega fyrer hana Skij vors auma Hollds Veikleika, og sijdañ Daudans, er hañ þo ecke forþienad hafde. Eñ a þessum Deige er hun so eitt Siñ uppruñeñ, ad hun mun framar alldrei undergaanga, þvi Christur uppriseñ af Daudum, deyr ecke meir, og Daudeñ rijker ei framar yfer hønum, seiger Paulus, Rom. 6. Þeir slaatrudu hønum so sem Lambe, eñ hañ reis upp aptur so sem ungt Leon. Johañes Baptista kallar hañ þad Saklausa Guds Lamb, sem i burtu ber Veralldareñar Synder, i hañs Nidurlægingu, Joh. 1. Johañes Evangelista nefner hañ þad Leoned af Kyne Juda, sem Sigureñ uñed hafe, Apoc. 5. i siñe Upprisu. Fognum þvi og glader verum, Christner Meñ, Sijngiande og Spilande DRottne i Hiørtum vorum. Guds Heilager Einglar, þeir Himnesku Andar, hvørium Guds Sonur eckert hafde utvegad med sijnum Dauda, þeir fagna sijnum HErra i hañs Upprisu, Joh. 20. Þvi skylldum þa ecke vier Allshugar fegner verda Synduger Ormar? Sem vorum Daudans Meñ, hefde ecke DRotteñ uppried oss til Riettlætis. Christi Postular truudu ecke Upprisu DRottens fyrer Fagnadar Saker, Luc. 24. Þesse braade Fagnudur var meire eñ so, ad hañ leysde þeim ad grunda hvad sañast være i sivotu Bragde; Eñ vier sem truum fyrer þeirra Vitnisburd, Laatum oss þeim Samfagna og glada vera, þad bijdur oss Guds heiløg Mooder, og heñar Selskapur, Þad biooda oss Einglar DRottens, Þad biooda oss hañs Postular, Þad biooda oss Himen og Jord, Þad bijdur oss siaalfur hañ, i hvørs Nafne vier Sigreñum hroosum, seigiande

De til ſiñar Chriſtne: Vakned upp og ſijnged þier ſem i Duptenu ligged, þegar þier hafed nidurſleiged hina Andvønu til Jardar, Eſa. 26. Og uppa þad, Brædur mijner, ad vier mættum þad þeſſ betur frañkvæma, Vilium vier af þeſſa Hatijdar-Dags Evangelio nockud giør yfervega Upriſu DRottens med þeim Avøxtum og Aminingum ſem þar af riiſa.

J þeſſu Eyrende hiælpe oſſ goodur Gud, fyrer Forþienuſtu ſijns Eingietens Sonar, med Naad Heilags Anda, AMEN.

## Utleggingeñ.

Þacker og Lof ſie eilijfum Gude fyrer þa Naad, ad JEſu Dijrdarfullu Upriſu þarf ecke med Vitnum ad ſtadfeſta, nu ſem ſtendur, þvi þar er eingeñ a medal Chriſteña Maña, ſem þad ecke jaate; Eñ a hinum fyrſtu Døgum Chriſtneñar, løgdu Guds heilager Meñ ecke ſo miked Kapp a nockurn Hlut ſem þeñañ, og þvi ſagde Petur fordum Daga, Act. 1. Pad byriar ad eirn af þeim Moñum, ſem med oſs vered hafa alla þaa Tijd, er Drotteñ JEſus gieck iñ og wt a medal vor, byriande a Skijrn Johannis, allt til þeſſ Dags, er hañ var fra oſſ uppnumeñ, ad eirn af þeim verde Vottur hañs Upriſu medur oſſ, og eñ framar, þa ed Petur talde uñ fyrer Judum, hvorier JEſum Kroſſfeſtañ høfdu: Pier Afneitudud hinum Heilaga og Riettlaata, eñ beidduſt epter ad ydur yrde Mordingeñ giefeñ, eñ Høfund Lijffſens deyddud þier, hvorn Gud hefur uppvaked af Daudum, hvors vier aller Vottar erum, Act. 3. og uñ alla Poſtulana til ſamans ber Lucas Vitne ſeigiande, Act. 4. Og med miklum Krapte vitnudu Poſtularner uñ Upriſu Drottens vors Jeſu Chriſti; Petta er ecke af Moñum ſkied, B. M. helldur af Gude, ſo ad hañs Sañleike ſtadfeſtur yrde a medal þeirra, til Nyſkunar þeim og Syndalauſnar. So ſeiger Petur aptur, Act. 10. Peñañ uppvakte Gud a þridia Deige, og giørde þad bert, ecke ollu Foolke, helldur fyrer Vottum þeim, ſem af Gude tilſkickader voru, oſs ſem ad aatum og druckum med hønum. Og uppa þad ad Chriſti Læreſveinar ei kyñu ad fara villt i þeſſu, þa hefur hañ i heila 40. Daga uñgeingeſt med þeim hier a Jorduñe, aadur eñ hañ til Himna ſtie, Act. 1. og ſijnt þeim klaarlega, ecke einaſta ad hañ upriſeñ være, helldur med ſama Lijkama, og þo forklaarudum, med Mañlegum Lijkama, og þo Dijrdlegum, med þeim Lijkama ſem a Kroſſenum hieck, og i Grøfena var nidur lagdur, og þo er Vollduglega upriſeñ, ad luckte Grøfeñe og Steinenum Oafvelltum. Ad hañ hafde Naatturlegañ Mañs Lijkama vottar hañ, Luc. 24. Siaed og þreifed aa, þvi Ande hefur ecke Holld nie Bein, ſem þier ſiaed mig hafa. Ad þad være ſa ſame Lijkame, auglijſer hañ nockru ſijdar i þeſſum Capitula Lucæ, ſeigiande: Siaed mijnar Hendur og Fætur, ad eg em þad ſialfur: Hañ talade vid þa, hañ braut Brauded, hañ aat og drack med þeim, eins og til forna, hñ liet þa þreifa a þvi ſama Hollde, og ſijnde þeim þær ſømu Hendur ſem a Kroſſeñ negldar voru, og þa Sijdu, er med Lenſuñe var i giegnum ſtwngeñ, þar hañ þo i ſama Sinni gieck til þeirra ad Lucktum dyrum, ſo ſem añar Ande, ad þeir ſiaa mættu, ad þad være hiñ ſame Lijkame ſem Leid, og þo Dijrd Oveniulegre prijddur: Jaa, til þeſſ ad ecker vantade þeim til Trwarſtyrkingar; Took hañ til a Moyſe og ollum Spaamoñunum, og lagde wt fyrer þeim allar Ritningar ſem af hønum voru, Leidande þeim fyrer Sioner,

er, ad Christo byriade þetta ad lijda, og iñgaanga so i sijna Dijrd, so ad þeirra Hiarta braũ i þeim, er haũ talade vid þa aa Veigenum, Luc. 24. Eñ so ad þeir mættu fyrer vijst vita, ad haũ bæde Gud og Madur være, og ad Maũdooinureñ være ecke i Daudanum vid Guddoomeñ skileñ, Itrekade haũ eitt af þeim Kraptaverkum er haũ aadur giort hafde, og upp er teiknad hiaa Joh. 21. þegar haũ kom til þeirra, er þeir voru ad Fiskeveidum, og hofdu uũ Nottena einkis ablad, eñ haũ baud þeim ad varpa wt Netenu til hægre Handar, hvad so tookst, ad þeir gaatu þau valla iñebyrgt fyrer Mergd Fiskaña, er i voru kouner. Nu, þar ed Einglarner hafa Drotteũs Upprisu bodad, Heilagar Kviñur þeim trwad, Postularner hafa haũ sied, aa honum þreifad, og vid haũ talad, Jesus sialfur sig opeñberad, og wtlagt Ritningarnar, þær sem af honum voru, og i hvorium haũs Upprisu spaad var og fyrermyndud, og Guds heilager Meñ hafa þusundum samaũ latted sitt Lijf uppa þeñaũ Saũleika, þa er haũ vissare og aa fastare Rokum bygdur eñ honum motseigia meige. Eñ hvoriar munu Orsaker þær, B. M. hvar fyrer ad so vandlega er bued uũ þetta dijrmæta Efne? Ein er su, ad Guds Sonur i haũs Upprisu hroosade Sigre yfer Dauda og Diofle, og auglijste oss syndugum Meñum, vegna hvorra haũ þeñaũ dijra Sigur uñed hefur, ad haũ være Daudans Daude, og Helvijtis Olifian, Os. 13. Herleidingeñ være ad Herfaange tekeñ, eñ haũ under eins hefde fridad fyrer oss hiaa Gude og Fodur. Þesse er hin hellsta Nytseme Upprisu Drotteũs. Hina adra seiger oss Paulus, Rom. 6 med þessum Ordum: Vier erum jardader med honum fyrer Skijrnena til Daudans, ad lijka so sem Christur er uppvakeñ fra Daudum fyrer Dijrd Fodursins, svo eigum vier ad gaanga i Endurnijung Lijfdagaña. Þar til er Christur daaeñ, ad i oss meige fyrer haũs Dauda, deyddur verda hiñ gamle Madureñ, þad er Uppruna Syndeñ, ecke ad hun olldungis wt af deye, helldur deyr heñar Illsku Kraptur, ecke ad hun burttekeñ verde, helldur heñar Sekt fyrergiefeñ, ecke ad Madureñ i Endurgietninguñe heilagur verde, helldur medtekur haũ heilagaũ Anda, fyrer hvorn haũ framveigis dempad gietur Holldsins Gyrnder, Ecke Riettlaatur i sialfum sier, helldur fyrer Christi Riettlæte, fyrer hvort honum veitest sa Anda Kraptur, ad haũ gietur uppriſed med Christo, og geinged i Endurnijungu Lijfdagaña, þvi seiger Paulus framveigis: Vitande þad ad vor gamle Madur er under eins Krossfestur, so ad afmaaest Lijkame Syndareñar, ad ecke þioonum vier Syndeñe framar, Rom. 6. Ecke seiger Paulus ad vier Syndlauser sieum, þvi þess er ecke ad vænta af Holldenu under Syndena sielldu, helldur seiger haũ ad vier ecke þioonum Syndeñe, þad er, laatum hana ecke drottna i vorum daudlegum Lijkama, ad vier hlijdum heñe i heñar Gyrndum, so sem haũ ad Orde kiemst i sama Capitula. Þesse er haũs Meining i Ordunum er vier strax heyrdum, þvi haũ svarar þvi sem haũ ondverdlega i Capitulanum þeim siotta framsetur a þeñaũ Haatt: Skulum vier þa i Syndunum dvelia, so ad Naadeñ ysergnæfe? Fiærre sie þvi. Tveggia Guds Velgiorninga gietur og St. Paall i greindum Ordum: Endurgietningareñar og Endurnijungareñar.

Vier erum Jardader med Christo fyrer Skijrnena til Daudans, þad er Endur-

 gietning-

gietningeñ. So eigum vier ad gaanga i Endurnijungu Lijfdagaña, þad er Endurnijungeñ: Hin fyrre skiedur i einu Augnablike i heilagre Vatnslaug: Hin sijdare aa ad framkoma uñ alla Æfe vora, og fara Dag vaxande, so ad smaamsamañ afmaaest Lijkame Syndareñar, og so sem vier i Christelegum Frædum lesum; Ad sa gamle Madureñ, þad er Uppruna Syndeñ, Daglega dreckest og deydest, fyrer Ydran og Yferbot, eñ framkome og upp aptur rijse eirn nijr Madur, sa ed life i Heilagleika og Riettlæte fyrer Gude æfiñlega.

Hin Fyrre er alleina Guds Verk i oss, so sem Paulus seiger, Tit. 3. Ecke af Riettlætis Verkunum sem vier giordum, helldur af Myskun siñe hefur hañ oss hoolpna giort fyrer Endurgietningar Laugena. Hin sijdare stendur ad nockru Leite i voru Vallde. Pad vottar St. Paall, Eph. 4. Endurnijest i Anda ydvars Hugskots, og Iklædest einum nijum Mañe, sem epter Gude skapadur er, i Heilagleika og Riettlæte. Hvorttveggia kallast Umskurn Hiartans i Gamla Testamentenu, Endurgietningeñ, Devt. 30. Gud mun umskiera þitt Hiarta. Endurnijungeñ, Jer. 4. Umskiered ydur fyrer DRottne, og burttaked Yferhwd ydar Hugskots, Pier Meñ Juda og Jerusalems Borgarar, ad ecke frambrune mijn Grimd so sem añar Elldur þañ eingeñ slockt fære, Sokum Illsku ydar Athafna. Hier kuñum vier nu ad siaa Skylldu vora, Brædur mijner, og hve mykell Haaske oss bweñ er, nema vier giolldum Varhuga vid, og rijsum upp med Christo DRottne vorum, i hvors Dauda vier skijrder erum, Rom. 6. og fyrer hvorn vier hofum Barna Riettiñ medteked, Gal. 4. Ef þier erud upprisner med Christo, þa leited þess sem þar uppe er, hvar Christur er sitiande aa Hægre Hond Gude. Hugsed uñ þad sem þar uppe er, og ecke þad sem er aa Jorduñe, seiger Paall, Col. 3. O! hvilijk er Faasiña Daudlegra Maña, þar vier vordner erum Borgar-Meñ Heilagra, og Guds Heimilis Meñ, Eph. 2. Pad Meñ sockva sier nidur i Leyrvelltu og Endeme Heims þessa, sem þo mun fyrerfarast med ollu þvi, sem i honum er, eñ yfergiefa sijns Fodur Heimkyñe. Giætum þess, ad vier erum i Skijrneñe vordner Kvister aa himu Andlega Vijn-Trie DRottne JEsu Christo, til ad bera mykeñ Avoxt, eñ hvorn þañ Kvist sem ecke Avoxt ber, mun Vijngards-Madureñ, sem er hañs Fader, afhoggva og i Ellde breña, Joh. 15. O! hvad herfeleg eru þau Umskipte, af einum himneskum Vijn-Vid, ad gioraſt Helvijtis Elldebrandur, af Christi Pienara, Satans Præll, af Guds Oska-Barne, Reideñar Barn, og þad fyrer stundlegt Epterlæte Syndareñar, hvorrar Verdlaun eru i þeim Pitte, sem rijkur af Ellde og Breñesteine, Apoc. 21. Eñ framar seiger Paulus, Col. 2. Pier erud greftrader med Christo i Skijrneñe, i hvorre þier og uppvakter erud fyrer Krapt Trwareñar at Gud, sem hañ uppvaked hefur. Hvor mun þesse Kraptur Trwareñar vera, Brædur mijner? Pad seiger Paall oss aptur, Gal. 5. er hañ so ad Orde kiemst, ad i JEsu Christo (þad er i þeim Hlutum, sem JEsu Christo vid koma) gyllde hvorke Umskurn nie Yferhwd, helldur Trw su, sem fyrer Kiærleikañ verkar. Eñ hvorier eru þa Kiærleikans Avexter? Paall kieñer oss þad, 1. Cor. 13. seigiande: Kiærleikureñ er Poleñmoodur

moodur og Goodgiarn, Kiærleikureñ ofundar ecke, Kiærleikureñ giorer ei Illmañlega, hañ þytur ei upp, hañ er ei Ofidsamur, hañ leitar ecke epter þvi sem hañs er, hañ er ei Pwnglyndur, hañ þeinker ecke Illt, hañ fagnar ecke yfer Rauglætenu, eñ samfagnar Sañleikanum. Hier telur Paall upp allar Christelegar Dygder, er af Kiærleikanum, so sem odrum Bruñe framñfloota eins og adrer hreiner frioofgande Læker, til allra þeirra sem vier eigum nockru vid ad skipta i Heimenum, og sa sem temur sier þær og Daglega jdkar, hañ maa þess fulloruggur vera, ad hañ hefur med Christo vel uppriſed, og er honum fyrer sañа og lifande Trw iñplantadur, þviad Elskañ er Kraptur Trwarenñar og heñar Lijfs-Mark; Þar fyrer seiger Postuleñ Afdrauttarlaust, ad Trweñ sie daud aan Verkaña, Jacob. 2. Og St. Paall, sem vard (fyrer þeirra Skulld sem forlietu sig uppaa Løgmaalsins Verk) ad hroosa Trwñe so miøg, ad nockrer hafa steitt sig þar aa, þo aan Orsakar og meint ad ei þyrfte Goodverkeñ ad giøra; Hañ seiger sialfur, 1. Cor. 13. Þo ad eg hefde alla Trw, so ad eg megnade Fiolleñ wr Stad ad hræra, og hefde ecke Kiærleikañ, þa være eg þo eckert. Vilium vier lijta til vors fyrra Hattalags aadur eñ vier Endurfæddер vorum, og heyra hvad Paulus þar um seiger, Eph. 2. Gud sa ed rijkur er af Naad fyrer siñ mykla Kiærleika, med hvorium hañ elskade oss, hefur lijfgad oss med Christo, þegar vier dauder vorum i Syndunum, og hefur under eins uppvaked oss, og aasamt Christo JEsu sett oss i Himnarijke. J Skijrneñe riette Gud oss fyrst allra sijna Myskunar Hønd, þegar vier miña kuñum ad hiaalpa oss i vorum Saaluhiaalpar Efnum, eñ eirn Brioostmylkingur Lijfe sijnu, þa reiste hañ oss upp wr Saurendum Natturlegrar Spillingar, þa took hañ oss iñ i siñ eilijfa Saattmaala, þa Trwlofade hañ oss sier i Naad og Myskunseme, Os. 2. Þa sette hañ oss i Rijke sijns Sonar, Col. 1. Eñ hvad er þad, Brædur mijner, ad vier brioostunst wr Fadme hañs ad niju, med Jdkun vondra Verka, er Guds Bornum sæma ecke, og forlaatum Meistara vors Ungdooms, sem took oss upp, þar vier laaum i voru Blode, wtkastader aa Vijdevaangenum, Ezech. 16. eñ gongum Diofleñum til Handa, hvorium vier afneitad høfum og øllum hañs Verkum. Er þad ecke ad kasta sier aptur i sama Saur, þoott vier Einusiñe uppreister sieum? Edur munum vier þess nockur Not hafa, ad Gud hefur med sijnum sterka Armlegg Handdreiged oss af Diofleñum i Endurgietninguñe, ef vier leggium Lag vort vid Satan aptur? Laatum oss til Hugar koma, Brædur mijner, hvad margt og myked JEsus þolad hefur, þegar hañ maatte þo vel Sælu hafa, Hebr. 12. aadur eñ hañ fieck uppriſed oss til Riettlætis. Sa sem heyrer Guds Son yfergiefeñ, Matth. 26. Gud blessadañ um Allder, Rom. 9. So sem Bolvan uppheingdañ, Gal. 3. og hañ sem gallt þad hañ ecke rænte, medal Ræningia taleñ, Marc. 15. og veit ad þetta er skied, fyrer alla þa Illsku sem ad Syndareñ hefur uñed til Helvijtis med, og ecke leitast vid ad Krossfesta sitt Holld med þess Gyrndum og Tilhneigingum, svo honum mætte Christi vegna Heimureñ verda Krossfestur, eins og Paale, Gal. 6. Þeim verdur alldrei auded med Christo upp ad rijsa i Naadeñe, svo hañ eilijflega med honum life i Dijrdeñe. Fyrer þvi aamiñer Petur

nærsta vel, seigiande: Med þvi ad Christur hefur nu fyrer oss lided i Holldenu, þa brynied ydur med sama Hugarfare, þviad hvor a Holldenu lijdur, hañ lætur af Syndeñe, 1.Pet.4. so ad hañ þadañ i fraa, hvad epter er Æfeñar i Holldenu, life, eige ad Mañlegum Gyrndum, helldur ad Guds Vilia. Hvad er þad ad vier seigiunst ydrast vondra Verka, nema vier og uppriisum med Christo? Vier komum hvert Ar, og Priaar, Fioorar Reysur a Are, epter þvi sem hvør er lyndur til fram fyrer Kieñemañeñ, þar hañ situr i Guds Stad til ad fyrergiefa oss Syndernar, ecke þeim sem naalægiast Gud med Vorunum alleina, Es. 29. helldur þeim, hvørra Hiarta ad riett er fyrer Drottne. Vier seigiunst bera Angur og Trega fyrer Syndena (Gud giæfe ad Hugur jafnañ Maale fylgde, og ad vier villdum af heñe laata og vid siaa framveigis) og er hañ hefur so i Guds Umbode tilsagt oss Kvittun vorra Afgiørda, meinum vier oss ad fara Riettlaatare heim aptur i vort Hws, Luc. 18. Og þad er i Sañleika satt a þeim, sem vel hafa reynt og proofad siaalfa sig, og af Alvøru audmijkt sig under Volldugа Guds Hønd; þviad Christi Loford er fyrer þvi, ad hvorium hellst Guds Pienare fyrergiefur Syndernar, þeim sien þær fyrergiefnar, Joh.20. þo ecke nema þeim sem elska siñ Lausnara og rækia hañs Bod, þviad St. Paall lijser Bølvan yfer þa sem ecke elska DRotteñ JEsum, 1. Cor. 16. og eru þeir þa laangt fraa Syndaña Fyrergiefningu. Hiñe Bersyndugu fyrergafst myked, þviad hun elskade myked, Luc. 7. Hvorneñ villium vier kallast elska Christ edur med hønum uppriisa, ef vier afrækium Bod hañs? Ef hañ er vor Fader, hvar er þa hañs Heidur? Mal. 1. Sa sem ecke tekur siñ Kross uppa sig og fylger hønum epter, Matth. 10. hañ er hañs ecke verdugur: Eñ Kross er varla þvilijkur Hollde og Bloode, svo sem ad uppfylla Christi Logmaal, sem þo er ecke nema i einu Bodorde iñefaled, sem er, ad bera hvør añars Byrde, edur elska hvør añañ Iñbyrdis, ad Vitne St. Paals, Gal. 6. Þvi dæme eg so, Brædur mijner, ad sa sem ecke stundar epter ad vardveita Christi Logmaal, hañ elskar hañ ecke, sa sem ecke elskar hañ, nijtur ecke hañs Forþienustu, sa sem ecke nijtur hañs Forþienustu, hañ er bølvadur, og er eñ þa i siinum Syndum, hvørsu opt sem Prestureñ lijser þeirra Kvittun yfer hønum; þviad hañ er Madur, og veit ecke a stundum hvorium hañ fyrergiefur Syndernar, þviad Guds alleina er ad rañsaka Hiartad, þar fyrer eigum vier ecke ad taka þad sem Gud hefur talad aangraadum Saalum til Trwarstyrkingar, Illskuñe og Prettviiseñe til Afsbotunar. Eñ giætum ad oss i JEsu Nafne, Brædur mijner, hvad opt hofum vier Syndaña Kvittun þeiged, eñ þad mun tilbored hafa, ad vier hofum aptur framkomed ecke einasta med þær somu, helldur og adrar verre a stundum. Hvad lijtt hefur oss þa vered giefed um ad hallda þad Loford, er vier giordum Gude i Jaatningu Syndaña, aadur eñ vier þaadum heilaga Aflausn af Hende hañs Pienara? Hvørsu treiger hofum vier vered a Heyrn hañs Orda? Hvad Osuser til ad elska vorn Naunga, ad forlaata hønum hañs Afbrot, ad giøra þeim Gott sem vid oss Misgiøra, ad forsvara hañ og færa alla Hlute a betra Veg, ad stilla Reidena, ad laata hañs Eigur kyrrar? Og i einu Orde ad seigia, ad riisa upp med Christo og bera Krosseñ epter hønum, þad er,

er, ad deyda hañ gamla Mañeñ er sig fordiarfar i Syrndum Villudoomsins? Eph. 4. Jaa, þvi verr, ad margur mun fiñast sa ed strax sem hañ er komeñ fraa Prestsens Kniaam, vellter hañ sier i sama Saur, og hefur aungva Vidleitne til þess ad laata af ollu þvi illa, er hañ strax med kiende og lofade Umboot a, og þad i Oftrauste Naadar Guds, og fall-valltre Von laangra Lijfdaga. Ecke er slijkt ad uppriisa med Christo edur bera Kross-eñ epter honum, helldur ad gabba hiñ Krossfesta. Eñ heyred hvad Paulus til Heb. seiger i 10. Cap. Saa sem ad aungvu hefur Moysis Logmaal, hañ skal epter Vitne tveggia edur þriggia Vægdarlaust deya: Hvad þijngra Straffs verdugur meined þi-er hañ reiknast mune, er foottredur Guds Son, og Saattmaalans Blood, med hvor-iu ad hañ Endurleystur er, almeñelegt helldur, og vanvirder Anda Naadareñar? Hvad er þad, ad vier jaatum alleina vorar Synder fyrer Gude; Mun honum nockur Pocknan i þvi? Hañ þarf ei þess vid, hañ veit þær betur eñ vær, þviad aller Hluter eru berer og nakter fyrer hañs Augum, Hebr. 4. Pad er nærre þvi, ad bryxla Gude med Jona Spaamañe um sijna Myskunseme, Jon. 4. So sem hañ ecke sie under eins Riett-laatur, og take alleina Skullda Reikningeñ fyrer Skullda-Lukninguna, hvad oss munde þykia liott a einum Domara, þvi kuñum vier þa ad ætlast til þess af Gude, hvors straan-ga Riettlæte ongva Purdu maa lijda? Pad sie fiærre, ad eg lijted giøre wr Jesu For-þienustu, hañs Pijnu og Dauda, hañs Uppriisu og ollu þvi hañ uñed hefur oss til Mysk-unar, þviad hvad er jafnvægt Guds Riettlæte? Hia hvoriu Himen og Jord eru miña eñ eitt Sandkorn ad reikna, nema þessar Astgiafer Frelsarans. Hitt seige eg, ad þad heyrer þeim ecke til sem ætla sier ad lifa i Syndunum, uppa þad ad Naadeñ yfergnæfe. Harmþrungeñ og sundurknosadur Ande er alleina þad Offred sem Gude þocknast, Ps. 51. Hvar fyrer? þviad Christi Forþienusta hrijn a þvi, nær þvi er so haattad, eñ ecke añars, so ad Gud vill ecke tilreikna Mañenum giordar Synder, eñ ecke er þetta Af-laats-Bref til ad meiga framveigis Syndena drijgia, þvi Christur er komeñ til ad upp-fylla Logmaaled, eñ ecke ad uppleysa þad, Matth. 5. Til ad forlijka fyrer Syndena, eñ ecke til þess Madureñ skule syndga: Til ad deyda Syndena i voru Hollde fyrer sijna Uppriisu, eñ ei til þess ad hun skule drottna i vorum daudlegum Lijkama.

Pu seiger: Eg aangrast af ollu þvi Illa sem eg hefe moote Gude giort, eñ hvar er þad Angur, þegar þu leikur þier ad sonu Syndum eins og odru Table? Pu seiger: Eg hata Syndena; Laat þa siaa ad þu elsker Gud, og drijger ei þad hañ bañad hefur. Pu seiger: Eg elska Gud sem mier hefur so margar Synder fyrergiefed; Laat þa siaa under eins, ad þu elsker ecke þad hañ hatar, þviad þessum Tveimur Herrum maa ecke i Señ þioona, Matth. 6. Añad er þad, ad Syndeñ hender Mañeñ, og hañ samþyck-est heñe um Stund, Añad þad, ad laata hana drottna i sier, hafa Lyst af heñe, og giora Handverk þar af; Pad Fyrra gietur ecke ad ollu Leite skiled vid oss aa medañ vier ber-um epter oss Lijkama þessa Dauda, so ad jafnvel Paulus selgest giora þad Vonda er hañ þo ecke giora vilie, Rom. 7. Hitt Sijdara er hiaa Bornum Vantrwareñar al-geingt, um hvoria Paall talar, Rom. 1. er hañ uppreiknar Skañer þær ed medal

Heiding-

Heidingiana tijdkuduſt, og ælyktar med þeſſum Ordum: Hvorier ed jafnvel þott þeir þecktu Guds Riettende (ſem er, ad þeir ed þvilijkt giora ſieu Dauda verder) þa giore þeir þad ecke ad eins, helldur ſamſina þeim er þad giora, Rom. 1. Þegar Gud, er hvad Naadugaſtur i ſijnu Evangelio, þa er þad þo alldrei ødruvijſe en ſo ſem han ſeiger, Eſ. 1. Laated af Jllu og læred gott ad giora; Komed ſijdan og eigunſt Løg vid, þott ydar Synder ſieu raudar ſem Blood, þa ſkulu þær verda hvijtar ſem Snioor, og þo þær ſieu ſem Purpure raudar, ſkulu þær verda hvijtar ſem Ull, og Paall er þvi ſamhliooda, Rom. 8. Er han vottar, ad eingen Fyrerdæming ſie framar yfer þeim ſem eru i Chriſto JEſu, þeim ſem ei gaanga epter Holldenu, helldur epter Andanum. Þetta er eitt Eſenlegt Evangelium, ſem varad hefur i fraa Heimſins Upphafe, og geinged hefur i giegnum bæde Guds Teſtamenta, og er ſo Oumbreytanlegt ſem han er ſiaalfur, hiaa hvorium ecke er Umbreyting nie Skugge Umbreitingar, Jac. 1. So þott ad Eingell af Himne kiæme ad predika anad, ſem þo er Omøgulegt, þa villda eg med Paulo ſeigia: Ad þad bølvad vera ſkyllde, Gal. 1. Hlijdum þar fyrer Raade St. Peturs, er han ſeiger: Legged af Jllſku alla, og øll Svikræde og Smiadur, og Øfund og alla Bakmælge, og gyrneſt hinar ſkynſamlegu og hreinu Mioolkur ſo ſem nijfædd Børn, uppa þad, ad þier þrooeſt fyrer þa ſomu, ef þier ſmackad hafed hvad liwfur DRotten er, til hvørs vier komner erum, ſo ſem til eins lifanda Steins, hvor af Mønum er burtkaſtadur, en af Gude er wtvalen og dijrmætur, 1. Pet. 2. Notten er umliden en Daguren tekur ad naalgaſt, leggium þvi af Verken Myrkrana og Jklædunſt Herklædum Lioosſins, Rom. 13. JEſus Chriſtus er a þeſſum bleſſada Dags Morgne uppriſen. Han er vorden morgum til Falls og Uppriſu i Jſrael, epter þvi ſem hin gamle Simeon Raad fyrer giorde, Luc. 2. Rijſum þvi upp med honum, ad ecke falle han yfer oſs, og i ſundurmerie med hinum ødrum er honum burtkaſtad hafa, Allra helſt þar vier er vitum Tijman, ad oſs er Maal ad rijſa upp af Svefne Syndana, þvi nu er Hialpræded oſs nær en vier nockurn Tijma trwdum, ſagde Paall, Rom. 13. Vier vitum ecke hvad naalæg ad er vor Endurlauſn, edur nær Hofud-Eingelſins Lwdur kvedur vid i Skyum Himens, og þar vort Paaſka Lamb Chriſtur er fyrer oſs Foorufærdur, þa holldum Haatijdena ecke i hinu gamla Swrdeige Jllſkunar og Prettvijſenar, helldur i Oſijrdu Braude Hreinlyndeſins og Sanleikans, 1. Cor. 5. Þad Saklauſa Guds Lamb ſem i burtu ber Heimſins Synder, Joh. 1. Þad verdur en nu Foornfært i Himnenum, ſo opt ſem oſs verda Syndernar fyrergiefnar a Jordune, þvi ſeiger Poſtulen, Heb. 9. Han er i Himenen ingeingen, ad han byrteſt vor vegna fyrer Guds Auglite, ſiaalfur Foornen, ſiaalfur Kiennemaduren, og ſiaalfur Gud, ſa ed Foornena þyggur: Þvi ætte Chriſtena Mana Lijferne ad vera eitt ſijfellt Paaſkahalld, þar til þad fullkomnaſt i Guds Rijke epter hans Loforde, Og vier munum eilijfar Paaſker med honum hallda a Lande lifande Mana, þar ed verda nuu eilijfur Hvijldar-Dagur, Eſ. 66. Og vier munum med foſtu Elſkunar Bande teingiaſt vid han ſem oſs hefur ſo heitt elſkad, ad han deo fyrer oſs Ranglaata, Rom. 5. Hvor ad er ſiaalfur Uppriſan og

Lijfed,

